# HUGVEKJUR

## VIÐ NOKKUR TÍMASKIPTI.


SAMIÐ HEFUR

JÓNAS GUÐMUNDSSON,

kennari við latínuskólann í Reykjavík.


---


ÚTGEFNAR Á KOSTNAÐ

EINARS ÞÓRÐARSONAR,

forstöðumanns prentsmiðju Íslands.

REYKJAVÍK.

Prentaðar í prentsmiðju Íslands. E. Þórðarson.

1857.

# Til lesandanna.

---

Fyrir nokkrum tíma stakk herra prentari Einar þórðarson upp á því við mig, að eg skyldi semja hugvekjur, annaðhvort um tímabilið frá veturnóttum til langaföstu, ellegar um föstuna; þótti mjer þá bæði illt, að verða ekki við þessari áskorun herra prentarans, og á hinn bóginn virtist mjer vera ráðizt í heldur mikið fyrir okkur báða, að eg semdi og að hann gæfi út á prent hugvekjur um annanhvorn þessara kafla vetrarins, af því að svo er skammt liðið, frá því að nýjar hugvekjur hafa verið prentaðar, sem ná yfir þá hvorn um sig, auk þess að Stúrms hugvekjur, sem flestir húsbœndur hjer á landi munu eiga, ná yfir hvorntveggja kaflann. Bauð eg þá herra prentaranum, að semja þær sex hugvekjur, sem í bœklingi þessum koma fyrir alþýðu sjónir, en lofaði honum jafnframt, að verða seinna við áskorun hans, að semja föstuhugvekjur, ef þessi litla tilraun geðjaðist alþýðu svo vel, að líkindi væru til, að hún mundi vilja eignast fleiri húslestrarbœkur ritaðar í líkum anda og þessar sex hugvekjur, og þótti honum það vel til fallið.

þannig er það þá undir komið, að hugvekjur þessar koma út á prent. Um þær sjálfar heyrir mjer ekki að fella neinn dóm, en þess eins læt eg við getið, að þær eru samdar án minnsta stuðnings af annara verkum, hvort sem það verður heldur talið sem kostur ellegar ókostur við þær. það þykist eg og vita að ætti að verða þeim til meðmælingar, að þær ráða bót á skorti, sem margir hafa kvartað yfir, að það hafa ekki áður verið til hugvekjur til allra þeirra daga, sem þessar hugvekjur eru ætlaðar til, í neinni einstakri húslestrarbók.

það er að endingu mín einlæg ósk, að þessi litli bæklingur geti áunnið sjer alþýðu hylli, af því að hann samsvari þeim tilgangi, sem allar húslestrarbœkur ættu að vera ritaðar í.

Ritað 29. júní 1857.

Höfundurinn.

---

## Yfirlit efnisins:

# I.

# Á GAMLÁRSKVELD.

---

Sálm. 90., 12.:

Kenn oss svo að telja vora daga, að vjer verðum forsjálir.

Enn einu sinni höfum vjer þá bætt einu ári við tölu vorra ára hjer í tímanum; síðustu stundir þessa árs eru nú að líða, og guði einum er það kunnugt, hvað margar stundir vjer eigum ólifaðar á hinum komandi tíma, og hvort það árið, sem heilsar oss á morgun, verður ekki vort síðasta; hversu eðlilegt er þá ekki, þegar vjer á þessum síðustu stundum hins liðna árs erum svo eptirtakanlega minntir á flughraða tímans, að vjer tökum undir með Davíð konungi, og biðjum guð að kenna oss, að telja vora daga svo, að vjer verðum forsjálir? En það er sorglegur sannleikur, að svo vel sem margur hver býr sig undir hið tímanlega, og telur í þeim skilningi daga sína, svo hirðulítill er hann, eptir hinum ytri ávöxtum að dæma, um að telja þá, til þess að búast við hinu eilífa. Menn verja opt töluverðum kafla lífsins til undirbúnings undir einhverja vissa stöðu þess, og í hinum tímanlegu efnum kappkosta þeir yfir höfuð á hinni yfirstandandi stund, að búast við hinni ókomnu,

en þegar þeir eru búnir að ná staðfestingu í kristindóminum, þá þykjast margir vera orðnir fullnuma í honum, þykjast vera búnir að telja stundir sínar, til undirbúnings undir hina eilífu köllun, og þó er óhætt að fullyrða, að engin kunnátta er vandlærðari, en hin mikla kunnátta, að vera kristinn. Ímyndum oss ekki, góðir bræður, að vjer sjeum orðnir fullnuma í vorum kristindómi, þó vjer getum haft boðorð hans á vörunum; það getum vjer jafnvel á þeim kafla lífsins, þegar vor sálar og líkama þroski er þó ekki meiri en svo, að enginn þorir að trúa oss fyrir neinni töluvert vandasamri stöðu þessa jarðneska lífs. Látum þessar síðustu stundir ársins, sem vjer nú erum að kveðja, leggja oss þann sannleika alvarlega á hjarta, að af öllum þeim köllunum, sem vjer höfum hjer á jörðunni, er engin vandasamari, engin meira skuldbindandi, engin yfirgripsmeiri, engin meira áríðandi og sem síður verður frestað, en sú, að telja vora daga, svo vjer verðum forsjálir, eða með öðrum orðum, að lifa til þess, að vjer verðum betur og betur kristnir, og æ hæfari til þess, að geta dáið eins og guðsbörn. Blessa þú oss, drottinn, þessar yfirveganir vorar, og láttu þær og sjerhvað það, sem vjer gjörum í þínu nafni, vera þjer til dýrðar og oss til sáluhjálpar.

Kenndu oss, drottinn, að telja vora daga, svo að vjer verðum forsjálir, því að það er hin vandasamasta köllun, sem vjer höfum; þú einn ert fær um, að undir búa oss undir hana og að hjálpa oss til að geta staðið í henni, eins og vera ber; eða er það ekki vandasöm köllun, og vandasamari en svo, að menn án mikillar fyrirhafnar og guðlegs fulltingis

gegni henni vel, að vera ríkur, en þó snauður, af því vjer sjeum á hverri stundu reiðubúnir, að gjöra herra hússins reikning vorrar ráðsmennsku; að vera borgari á jörðunni, en þó um leið í himninum; að vera af náttúrunni drambsamur og sællífur, en læra þó að vera auðmjúkur og bindindissamur; að vera af náttúrunni öfundsjúkur, hatursfullur og reiðigjarn, en læra þó að vera kærleiksríkur, sáttgjarn og hógvær; að vera af náttúrunni huglaus og ístöðulítill, en læra þó að vera sú hetja, sem á hverri stundu er reiðubúin, að láta lífið fyrir skylduna; í stuttu máli: að vera af náttúrunni hneigður til vantrúar og efasemi, en trúa þó jafnvel því, sem ekkert auga hefur sjeð, ekkert eyra hefur heyrt, og ekki hefur í nokkurs manns huga eða hjarta komið. Vjer finnum það, drottinn, að oss er harðla ábótavant í þessari kunnáttu vors kristindóms, og þó erum vjer sjer í lagi kallaðir til að verða fullnuma í honum; reynslan og samvizka vor segja oss, að vjer gegnum engri köllun vorri jafnilla, og hið nýliðna árið innibindur það ámæli í kveðju sinni til vor, að vjer höfum ekki tekið miklum framförum í vorum kristindómi; það er eins og vjer fylgjum ávallt annari reglu, hvað hann snertir, heldur en við allt annað, sem vjer köllum erfitt og vandasamt, því að við það beitir hinn hyggni þess meiri alúð og árvekni, sem það er vandasamara, en þegar litið er til kristindómsins, þá er ekki annað að sjá, en að menn haldi, að af því að hann sje hinn vandasamasti lærdómur, þá þurfi þeir að hafa við hann minni árvekni og alúð, en við hvað sem helzt annað, af því það veitir jafnvel ekki af allri eilífðinni til að ná því takmarki, sem hann setur oss, þá sje ekki vert að

verja til hans, nema einstöku stundum hjer í tímanum; af því guð heimti, að vjer helgum honum allt, sem vjer höfum, þá sje ekki vert, að gefa honum nema nokkuð, hinu sje bezt að verja til heimsins og unaðsemda hans og dramblætis. Látum oss þó á þessari stundu alvarlega einsetja oss, að af leggja þessa fávíslegu ímyndun, að kröfur kristindómsins til vor sjeu svo vægar, og að guði sje engin alvara, þegar hann skipar oss; látum oss ekki ímynda oss, að vjer getum öðlazt hin œðstu gœði fyrirhafnarlaust, fyrst að jafnvel allt kostar oss áreynslu, hvað lítið sem í það er varið, af hinum jarðnesku gœðum, ef vjer eigum að geta öðlazt það.

Kenndu oss, drottinn, að telja vora daga, svo að vjer verðum forsjálir, því að það er sú köllun, sem vjer erum einkum skuldbundnir til; eða hvað er meira skuldbindandi, en þakklætisskyldan við velgjörara sinn, og það við þann velgjörara, sem gefið hefur oss allt það, sem stuðlað getur til sælu vorrar? mikið hefur sjerhver af oss að þakka mönnunum, sjer í lagi foreldrum vorum eða þeim, sem hafa reynzt oss eins og foreldrar; en enginn þeirra hefur þó gefið oss lífið, enginn þeirra keypt oss undan valdi hins eilífa dauða, enginn þeirra getur við haldið lífi voru í eilífðinni; en þetta allt gjörir vor himneski faðir, og ætlast ekki til neins endurgjalds fyrir það handa sjálfum sjer, því að vjer getum ekki gjört hann sælli eða ríkari, en hann er; en hann ætlast einungis til, að vjer teljum vora daga, svo vjer verðum forsjálir, ætlast til, að vjer verðum kristnir, og deyjum eins og hans börn. En þar að auki er þessi köllun svo skuldbindandi fyrir oss, af því að

allt minnir oss á hana, og vjer getum því ekki afsakað vort hirðuleysi með, að vjer eigum svo örðugt með, að minnast hennar, því að það sje svo fátt, sem veki athuga vorn á henni; hinn fljúgandi tími, sem ekki stendur við eitt augnablik, minnir oss á hana; árið, sem nú er að kveðja oss, minnir oss á ótal þegnar velgjörðir af guði og mikið vanþakklæti hjá oss, minnir oss á mikla elsku tímanna drottins til vor, en á mikinn kulda hjá oss; hver helgidagur minnir oss á hana, því að vjer erum sí og æ áminntir um í guðsorði, að telja vorar stundir, því að hjer sjeum vjer ekki nema ferðamenn og stundargestir; vort veika jarðneska ástand minnir oss á hana, því að hversu lítið atvik getur ekki opt gjört enda á lífi voru; vor eiginn líkami minnir oss á hana, því að hversu opt finnum vjer ekki, að hann er undirorpinn dauðanum, með apturför og sjúkdómi; hinar bognu herðar og hærur hins aldraða, og sú apturför sálar og líkama hans, sem fer vaxandi með stundu hverri, minnir oss á hana; æskunnar rósir minna oss jafnvel á hana, því að hvað er vort líf frá hinni fyrstu tilveru þess nema barátta við dauðann, og eru ekki rósir æskunnar einatt visnaðar, áður en varði, af því að andi drottins bljes á þær? já næstum hver stundin minnir oss á hana, því að skammt er vant að líða á milli, að vjer heyrum, að sá eða sá hafi kvatt þetta jarðneska líf, og margir þeirra, sem lifðu með oss, ekki einungis í æsku vorri, heldur og þeirra, sem byrjuðu með oss árið, sem nú er að líða, eru komnir inn í eilífðina, til þess að straumur tímans skuli æ meir og meir fjarlægja minningu þeirra frá jörðunni; og þó skyldum vjer gleyma þessari köllun, sem sjer-

hver drottins velgjörð, hver stundin og vort eigið á-stand minnir oss á, og skuldbindur oss til að gefa gætur að.

Kenndu oss, drottinn, að telja vora daga, svo að vjer verðum forsjálir, því að það er sú köllun vor, sem innibindur í sjer flestar skyldur, flestar kröfur til vor, og getur því heitið hin yfirgripsmesta köllun. Vjer getum enga skyldu talið, sem vjer ekki uppfyllum með því, að uppfylla hana, enga, sem vjer ekki yfirtroðum með yfirtroðslu hennar. Þú telur ekki þína daga, til að verða forsjáll, og þú gjörir þig sekan í dauða sálar þinnar; í stuttu máli, þú vakir ekki yfir hjarta þínu, og freistarinn getur því á hverri stundu yfirfallið þig, og komið þjer til þeirra synda, sem þú ímyndar þjer nú í þessu augnabliki að þú munir aldrei geta fengið af þjer að að hafast; hefur ekki margur, sem var miklu betri en þú, hrasað, þegar hann varði minnst? og geturðu haldið, að syndin sje hinn einasti óvinur, sem þjer muni takast að sigra, þó þú sjert óviðbúinn? eða að þú sjert hin einasta hetja af oss mönnunum, sem geti varizt henni vopnlaus? Nei! teljum vora daga, svo að vjer verðum forsjálir; prófum sí og æ hjörtu vor og hugrenníngar eptir guðs heilaga orði; því það er sorglegur sannleikur, að engin mannleg dyggð er svo hrein og svo sterk, að henni ráði ekki á hverju augnabliki við falli, ef vjer ekki sífelldlega erum varkárir og uggandi; látum það ekki draga oss á tálar, að vjer höfum hingað til komizt af ámælislaust fyrir heiminum, því að, þegar vjer prófum oss hlífðarlaust, þá verðum vjer þó að játa, að margar af dyggðum vorum eiga rót sína í því, að vjer höfum annaðhvort

óttazt þá hneisu, sem yfirtroðslan mundi olla oss, í augum manna, en ekki guðs og vorrar eigin samvizku, eða í því, að vjer höfum enga freistingu átt við að stríða, til að drýgja þá eða þá yfirsjón, eða í því, að oss hefur skort fœri á því. Mennirnir kunna að hrósa oss, en hvað stoðar oss það, þegar hjarta vort er óhreint, og það getur ekki dulizt fyrir hinum allt sjáanda guði, sem sjer í lagi dœmir eptir hjartalaginu, en ekki hinu ytra; heimurinn elskar oss, af því vjer elskum hann; en ef vjer elskuðum guð, þá gæti líka verið, að heimurinn elskaði og hrósaði oss minna; vjer eigum skemmst að búa að lofstír mannanna, en teljum vora daga með því, að vaka yfir hverri hugsun hjarta vors, hverju orði, sem líður oss af vörum, hverju áformi og hverju verki, sem vjer að höfumst, og gjörum það til þess, að geta staðizt í dómi hins alskyggna guðs, hvað sem dómi mannanna líður, og til þess, að vjer höfum aldrei tilefni til, að ákæra oss fyrir ásetningssyndir; vjer höfum nóg að iðrast fyrir samt, vorar breiskleika- og óvilja-syndir.

Kenndu oss, drottinn, að telja vora daga, svo að vjer verðum forsjálir, því að það er sú köllun, sem oss er mest áríðandi, og sízt verður frestað. Guðs orð sýnir oss hvervetna, hve áríðandi hún er, með því að það ávallt segir, að vort tilkomandi ástand í eilífðinni sje komið undir breytni vorri hjer á jörðunni, og það gjörir það á þann hátt, að þessa lífs fœri til yfirbóta ekki virðist að geta átt heima um eilífðina; ef vjer því álítum það áríðandi, að afstýra þeim skaða, sem að eins getur ollað oss skammvinnum sársauka, hversu miklu fremur er oss þá ekki áríðandi, að hlýða þeirri köllun, að telja vora

daga, til þess að afstýra þeim skaða, sem getur ollað oss ævarandi ófarsældar í eilífðinni. Vjer getum þess vegna heldur ekki frestað, að gegna þessari köllun, því að tíminn líður skjótt, og sú stund, sem einu sinni hefur verið vanrækt, verður ekki aptur fengin; enn er náðartími drottins; enn njótum vjer lífs og heilbrigði, og getum því snúið oss til hans; en hver getur fullvissað oss um, að svo muni lengi verða? eða ætlum vjer fyrst að efla vora săluhjálp í ellinni? vjer ættum þó að vita, að þess lengur sem vjer frestum voru apturhvarfi til guðs, þess erfiðara verður oss það; hinum gamla fellur öll nýbreytni erfitt, auk þess sem leiðtogar æsku vorrar eru á elliárum vorum komnir í gröfina, og hættir að áminna oss, og vor hjálparmeðul til apturhvarfsins fækka þannig hvert eptir annað á elliárunum, um leið og óvinir sálna vorra fjölga, því að áhyggjur lífsins leggjast þyngst á oss í ellinni, um leið og kröptum sálar og líkama hnignar; eða ætlum vjer að efla vora săluhjálp á dauðastundunni? en enginn getur fullvissað oss um, að vjer höfum þá ekki nóg að hugsa um þjáningar líkamans í helstríðinu, eða um, að vjer höldum viti og rænu fram í andlátið, eða að dauðinn yfirfalli oss ekki í einu augnabragði; þykir oss það ekki líka vanvirða, að fresta apturhvarfi voru, þangað til vjer erum búnir að slíta kröptum vorum í þjónustu heimsins? og er það ekki ósamboðið þeirri virðingu og elsku, sem guð á skilið af oss, að vilja fyrst helga honum oss, þegar vjer erum farnir að hræðast oss sjálfir, og heimurinn hefur snúið við oss bakinu, af því hann getur ekki lengur haft not af oss? Tíminn líður skjótt, og eilífðin tekur við, þegar hann er á enda; teljum

því þær stundir hans, sem eptir eru, svo að vjer verðum forsjálir; ímyndum oss dauðann ætíð nálægan, eins og hann líka getur verið, og gjörum það til þess, að geta yfirunnið gröf og dauða, þegar það hvorttveggja ber að höndum, í krapti hans, sem sigraði bæði gröfina og dauðann fyrir oss með krapti sinnar eilífu friðþægingar.

Líð þá, hraðfara straumur tímans, og flyttu oss til hinnar endalausu eilífðar; vjer vitum ekki, hvað hin komandi árin hafa oss geymt í skauti sínu, en vjer viljum telja vora daga, og skelfast þau svo ekki, því að þá vitum vjer, að eptir gamlárskveld þessa lífs skal oss upp renna bjartur og sælufullur nýársdagur á sumri friðarins og ódauðlegleikans. Amen.

---

# II.

# Á SÍÐASTA DAG VETRAR.

---

**Jesú Sírak 40., 7.:**

**Maðurinn vaknar á sínum endurlausnardegi, og verður hissa af sinni einkis verðu hræðslu.**

Það er fagnaðarsælt, að minnast þess blíða, sem fram við oss hefur komið, og það getur stundum sykrað oss hið yfirstandandi böl; hinn aldraði rennir með ánœgju huganum til hinna glaðlegu œskuára sinna, og gleymir opt með þeim hætti andstreymi og dapurleika ellinnar; en það er og eins víst, að endurminning horfinnar gleði getur orðið til að beiskja oss það mótlæti, sem á oss liggur. Hversu opt höfum vjer lítinn annan árangur gleði vorrar, en að vjer finnum þess sárar til umskipta sorgarinnar eptir gleðina? En svona er ekki háttað endurminningu hins mótdrœga. Þegar það er liðið og borið, þá margfaldar það þá gleði, sem vjer njótum, og getur jafnvel gjört minna mótlæti svo ljett, að vjer skoðum það ekki eins og mótlæti, þegar vjer berum það saman við hið meira, er vjer höfðum áður að bera, heldur eins og lítilfjörlegan skort eða óþægilegleika. Þess vegna segir Sírak, að maðurinn vakni á sínum endurlausnardegi, og verði hissa af sinni einkis verðu hræðslu; þá vaknar hann til gleðinnar yfir lausninni frá örðugleikum lífsins, og þess vegna til annarar skoðunar á tilgangi hins mótdrœga, heldur en á meðan það varaði. Einn af þessum lausnardögum vorum

getum vjer sagt að oss sje upp runninn í dag, sem er hinn síðasti dagur þessa vetrar; hann er vor lausnardagur frá harðindum og óblíðu vetrarins, og þess vegna erum vjer nú vaknaðir til gleðinnar yfir þessari lausn og yfir inndæli og blessun sumarsins, sem heilsar oss á morgun. Látum oss nú á þessum vorum lausnardegi frá óblíðu hins umliðna vetrar yfirvega, að því leyti sem tímaskiptin og orð Síraks gefa oss tilefni til, gleði mannsins yfir umliðnum örðugleikum. Blessaðu oss, drottinn, þessa yfirvegun, og láttu hana styrkja oss í þeirri gleðiríku sannfæringu, að fyr eða síðar skal oss upp renna lausnardagur frá öllu andstreymi, þegar vjer játum það af hjarta, að allir þínir vegir eru einber miskun og trúfesti.

Maðurinn vaknar á sínum endurlausnardegi, og verður hissa af sinni einkis verðu hræðslu. Þetta sýnir oss, að gleði hans yfir umliðnum örðugleikum er eptir eðli sínu hrein og lifandi, því sá einn getur verið hissa yfir sinni einkis verðu hræðslu, sem orðinn er að öllu leyti laus við hana. Vegfaranda lífsins er hinn ókomni tíminn æfinlega meira ellegar minna myrkur og kvíðvænlegur, því hann veit ekki, hvað hann kunni að hafa sjer búið, og þó hann hlakki til einhverra lífsins gæða, þá mun þessi fögnuður sjaldan vera kvíðalaus, því hann veit þó aldrei fyrir fram, að hverju þau muni verða sjer; en þegar hann rennir huga sínum til hins umliðna, þá er allt bjart í augum hans, og engin óvissa veikir framar gleði hans, því það stendur í hans eigin valdi, að láta hið umliðna verða sjer blessunarríkt og fræðandi, og þó það hafi flutt honum sorg og andstreymi, þá liggur það

á bak við hann, af því að það er umliðið, og fjarlægist hann æ meir og meir. Svona er gleði mannsins á hans endurlausnardegi hrein, og svona er líka háttað gleði vorri í dag yfir því, að vetur þessi er liðinn, og þó vjer fögnum hinu komandi sumri, þá er þó gleði vor langtum hreinni yfir því, að veturinn er liðinn, heldur en yfir því, að sumarið fer í hönd; því þó það sje tími lífsins og gleðinnar, þá vitum vjer samt ekki, af því að það er ókomið, hvað það kann að hafa oss geymt, og vjer getum ekki vitað, nema það hafi oss margfalt meiri sorgir búið heldur en hinn umliðni vetur. En þessi gleði mannsins er líka lifandi, og það því fremur, sem hið umliðna hefur verið örðugra. Þegar sigurinn er fenginn, þá kvarta menn ekki lengur undan þeim örðugleikum, sem hann heimtaði, meðan á honum stóð, heldur gleðjast þeir eingöngu yfir, að hann er fenginn, og þeir eru jafnvel því glaðari, þess erfiðara sem stríðið var, meðan á því stóð, og þeir mundu eptir á ekki vilja kjósa sjer, að sigurinn hefði komið þeim fyrirhafnarlaust í hendur. Svona finnum vjer og vissulega allir til lifandi gleði yfir, að vetur þessi nú er á enda, og vjer kveðjum hann með þess hjartanlegri gleði, sem hann hefur verið oss örðugri, og þó hann kunni að hafa eptir skilið sorg í hjörtum einhverra, þá mundu þeir þó ekki álíta það bót harma sinna, að lifa hann nú þegar á ný, heldur segja þeir líka skilið við hann með lifandi og innilegri gleði.

Gleði mannsins yfir hinum umliðnu örðugleikum er honum líka æfinlega v i s s, því hans lausnardagur kemur yfir hann fyr eða síðar, og með honum upp rennur honum líka gleðin. Þessi gleðjandi hugsun

liggur einnig í þeim orðum Síraks, sem vjer gjörðum að íhugunarefni voru, því hann talar um þennan endurlausnardag, eins og það sje sjálfsagt, að hann heyri lífinu til, og að hann muni því æfinlega koma fyr eða síðar; dagurinn, sem vjer lifum í dag, staðfestir líka þennan vitnisburð; sjerhver vetur hefur sinn síðasta dag, sinn enda, og svona hefur og sjerhvert mótlæti það líka. Hamingjunnar gæðum virðist að vísu mjög ólíkt út hlutað hjer í lífi, og sumra líf virðist fullt baráttu og armæðu frá vöggunni til grafarinnar, en aðrir virðast þar á móti að dansa á rósum eptir vegi lífsins, þangað til að vegum þeirra beggja lendir á endanum saman í gröfinni. En mismunur þessi á kjörum manna er opt langtum meiri útvortis en innvortis; fæstir munu þeir vera, sem ekki læri að bera langvinnt mótlæti með meira trúnaðartrausti og þolinmæði, þegar fram í sækir, heldur en þeir gátu borið það með í byrjuninni, ellegar jafnvel heldur en þeir bera smávegis örðugleika, sem mjög eru öllu andstreymi lífsins óvanir; og fyrst að sá má heita sæll, sem er ánægður, hvort sem hann er sæll í augum annara ellegar ekki, þá getur sá dagur heitið sannur lausnardagur sjerhvers manns, sem honum lærist á, að bera mótlæti sitt með ánægju og trúnaðartrausti til guðs, enda þó að mæðukjörum hans sje ekki að öllu leyti ljett; og þessi lausnardagur getur verið sjerhverjum manni viss, því guð er trúr og miskunsamur, og „synjar þeim ekki um heilagan anda, sem hann þar um biðja“, synjar þeim ekki um þolinmæðinnar, róseminnar og trúarinnar anda, sem græðir sár hinna lemstruðu, huggar hina angráðu, styrkir hina veiku og ístöðulitlu, og friðar hina hrelldu. Heim-

urinn veit að vísu ekki, hve nær þessi lausnardagur rennur þeim upp, og því síður kann hann að meta þá blessun, sem hann flytur þeim, sem mótlætið bera, en þeim sjálfum getur verið það nóg, að eiga þennan lausnardag æfinlega vísan, og hina margföldu blessun, sem miskun og trúfesti drottins lætur hann flytja þeim. Það, sem sjer í lagi þyngir mótlæti margra, er hræðslan fyrir, að það muni verða langvinnt, og reynslan sýnir líka opt, að það getur orðið það; en hún sýnir langtum optar, að það endar miklu fyr, en mann varði, og þó að sumra lausn frá því byrji fyrst í dauðanum, þá eru þeir þó langtum fleiri, sem öðlast hana innan takmarka þessa lífs; ótal margir af oss hafa án efa reynt optar en einu sinni, að þegar neyðin var stœrst, þá var hjálpin næst, og það ekki að eins sú hjálp, sem drottinn veitti oss með þolgœði og trúnaðartrausti, heldur og með því, að ljetta á oss mótlætinu sjálfu. Áþekka lausn, og vjer reynum í dag frá örðugleikum hins umliðna vetrar, höfum vjer svo ótal sinnum áður reynt frá ýmislegum örðugleikum lífsins; og skyldi þá ekki þessi reynsla geta stuðlað til, að styrkja oss í traustinu á handleiðslu vors miskunsama föður á hinum ókomna tíma. Fyrst hann hefur verndað oss og frelsað oss svo dásamlega hingað til, skyldum vjer þá ekki þora að byggja á því vissa von um, að hann og einnig muni gjöra það framvegis? En hafi miskun hans ásett sjer, að láta vort böl enda fyrst í dauðanum, þá ættum vjer að taka þeim ráðstöfunum drottins þakklátlega, sem stefna huga vorum frá heiminum til himinsins, og það gjörir mótlætið sjer í lagi, og hvort sem það hefur varað lengur eða skemur á vorri jarðnesku vegferð, getum

vjer þó æfinlega glatt oss við þá vissu, ef vjer kappkostum að lifa eins og guðsbörn, að vor dauðastund verður og vor lausnarstund frá öllum örðugleikum lífsins. Huggum oss því sí og æ með þessari gleðjandi vissu, að vor lausnardagur ekki getur brugðizt oss, heldur er oss æfinlega viss, og látum þessa sannfæringu innræta oss þolgæðið og trúnaðartraustið á guði, meðan hið mótdræga varir; vort mótlæti getur verið hart, en það er þó ekki nema stundlegt, en á eptir því kemur vor endurlausnardagur, fyr eða síðar, þegar stríðið á að enda með sigri og sorgin með gleði.

Gleði mannsins á hans endurlausnardegi er líka eptir eðli sínu þakklát. Vor hræðsla fyrir hinu ókomna væri í sannleika ekki einkis verð, eins og Sírak kallar hana, ef vjer hefðum á ekkert að reiða oss, nema hið jarðneska og hið sýnilega; en nú er hún einkis verð, af því vjer vitum, að sá vakir yfir heiminum, sem bæði hefur mátt og vilja til þess, að hjálpa oss, sem er svo annt um oss, að hann jafnvel hefur talið öll vor höfuðhár (Matt. 10., 30.), og sem er oss hið sama, sem hann forðum sagðist vera Abraham: hans skjöldur og hans mjög mikil laun (1. Mós. 15., 1.). Þeir eru að vísu til, sem ógjarnan vilja kannast við guðlegt liðsinni, og sem allt vilja tileinka eigin framsýni sinni og dugnaði; verið getur, að þessi meðvitund sje þeim þægileg, en hún hlýtur þó, eins og allt sem er ósatt, að verða svikul og táldræg á endanum. Guð hefur að vísu bundið sína hjálp við mannsins eigin viðburði og framkvæmdarsemi, en hver hefur gefið honum dugnaðinn og hæfilegleika til framkvæmda, og hver hefur lagt

honum meðulin í hendur, nema guð? Og hversu takmarkaðir eru ekki líka mannsins kraptar? Hann á engan þátt í uppruna tilveru sinnar, og getur heldur ekki lengt hana út yfir það svið, sem drottinn hefur sett henni hjer á jörðunni, því þegar hann kveður manninn til lífsins eða dauðans, þá verður hann að hlýða. Umliðinn vetur minnir oss líka, eins og sjerhver vetur, svo eptirtakanlega á vanmætti vort; að vísu getum vjer á sjerhverju sumri búið oss undir hinn komandi vetur, en með öllu því hlýðir þó hvorki veður nje vindur oss eina stund, og ef guð með sínu dásamlega almætti ekki setti óblíðu veðráttunnar vissar skorður, þá væri lífi voru fyrir löngu fyrirgjört. Hvað eigum vjer líka skilið af guði nema hegningu? og þó við heldur hann og blessar oss á sjerhverri stundu vors lífs, og hefur þyrmt oss svo náðarsamlega fram á þennan dag á hinum umliðna vetri, að harðindi hans hafa ekki unnið voru veika lífi minnsta grand. Til þessa finnum vjer svo glöggt á þessum degi, og gleði vor á honum er því full þakklátsemi við gjafarann alls þess, sem gott er, við hann, sem ræður öllum vorum kjörum frá vöggunni til grafarinnar, sem er einber miskun og trúfesti við oss, þó vjer sjeum honum á hverri stundu ótrúir, og möglum svo opt undan hans gœzkuríku handleiðslu á oss.

Gleði mannsins á hans endurlausnardegi er líka fræðandi fyrir hann, því það liggur í eðli sjerhverrar gleði; hinn glaði lítur allt öðrum augum á lífið, heldur en hinn hryggi, og sú hræðsla, sem virðist byggð á gildum rökum, þegar vjer erum kvíðandi og áhyggjufullir, hún verður, eins og Sírak kemst að orði, einkis verð í augum vorum á vorum endur-

lausnardegi, þegar vjer erum glaðir og lausir við áhyggjurnar. Meðan hið örðuga varir, þá finnst oss það líka svo sárt og svo mœðufullt, að vjer skiljum ekki í tilgangi þess; en þegar það er liðið, þá eigum vjer hœgra með að sjá, að það hefur verið oss til góðs og hefur batað oss. Harðindi þessa vetrar og hið dapurlega útlit náttúrunnar á honum olli oss líka margrar óánœgjustundar, á meðan það varaði; en nú, þegar sá tími er fyrir höndum, að náttúran vakni af vetrardvala sínum, og að vjer eins og vöknum til nýs lífs og nýrrar gleði vegna tímaskiptanna, þá eigum vjer hœgra með, að finna til þess, að dauði vetrarins er skilyrði þess lífs, sem birtist á sumrin. Svona frœðir vor gleði yfir sjerhverri lausn frá hverju helzt andstreymi sem er oss um vísdóm og um gœzku guðs í stjórn vorra kjara hjer á jörðunni. Vjer kvörtum yfir hans stjórn, ýmist af því, að drambsemin, eða munaðargirndin, eða vort ófullkomna jarðneska ástand yfir höfuð bindur fyrir augu vor. Drambsemin blindar oss, svo að vjer kvörtum undan guðlegri stjórn, þegar vjer þykjumst verða fyrir því mótlæti, sem aðrir komist hjá, sem eigi það þó, eptir ímyndun vorri, langtum fremur skilið en vjer, og verið getur, að vjer þykjumst líka að öllu leyti saklausir; munaðargirndin lætur oss heldur ekki geta sjeð tilganginn í guðs vísdómsfullu stjórn, þegar hún leggur oss eitthvað örðugt á herðar; vjer viljum sí og æ geta látið eptir holdinu og heiminum, og undir eins og út af því ber, að vjer getum það, þá virðist oss miklu af sælu vorri fyrirgjört, af því vjer þekkjum svo lítið til þeirrar sælu, að hafa umgengni við guð í trúnni og í bœninni; þannig kemur því munaðargirndin oss

ekki síður en drambsemin til þess, að misskilja tilgang mótlætisins, meðan það varir, og til að mögla yfir hinni gœzkuríku stjórn vors himneska föður. Vort jarðneska ástand yfir höfuð lætur oss líka misskilja tilgang hins mótdrœga. Vjer erum skammsýnir, og lítum því að eins stundina, sem er að líða, en drottinn vor, sem sendir oss mótlætið, sjer allt í ljósi sinnar eilífu speki; vjer metum því tilgang hans með að senda oss mótlætið ekki eptir eilífðinni, eins og vjer eigum að gjöra, því vor þrenging, sem er skammvinn og ljettbær, aflar oss yfirgnæfanlegrar eilífrar dýrðar (2. Kor. 4., 17.), heldur eptir því, hversu oss er það erfitt og mœðufullt, meðan það varir, og oss finnst þess vegna, að það skaði oss, með því að það hamli frelsi voru, í stað þess að það gagni oss. En á vorum endurlausnardegi sjáum vjer mótlætið í allt öðru ljósi; þá könnumst vjer við, að það er mikill velgjörningur guðs; því hvað er maðurinn án þess, nema hálfsjeður og ófullkominn, hvað fullkominn sem hann annars kann að þykjast vera? Í mótlætinu deyr mörg rót syndarinnar út, sem hlýindi gleðinnar lætur taka þroska; og hvaða frelsi missir maðurinn í mótlætinu nema það, að geta látið eptir holdinu og að geta vaxið í andvaraleysinu? Guðs margbreytta speki og gœzka birtist manninum fyrst algjörlega á hans endurlausnardegi, og þá breytist hans víl og efasemi í gleði og trúnaðartraust á hinni vísdómsfullu og gœzkuríku handleiðslu guðs. Stundirnar í dag líða skjótt, en látum þær eptir skilja í hjörtum vorum þá lifandi kenningu, oss til frœðslu og til leiðrjettingar, að allt, sem guð gjörir, er gott, svo að vjer sjeum á hverri stundu reiðubúnir að bera krossinn, þegar honum þóknast að

senda oss hann, með auðmýkt og undirgefni undir hans heilaga og algóða vilja.

Gleði mannsins á hans endurlausnardegi á líka að vera eilíf. Að vísu gefast endurlausnardagar hjer á jörðinni frá ýmislegu böli, en þeir eiga þó aldrei skilið að heita þessu nafni í fullkomnum skilningi; allt af loðir meiri eða minni örðugleiki og sorg við vort jarðneska líf, og kvíðinn fylgir oss ávallt á vegferðinni gegn um það, því þó hamingjunnar gæði hafi um stundar sakir fallið oss í skaut, getum vjer þó aldrei vitað, nema þau á svipstundu yfirgefi oss aptur. En svona skal þetta ekki æfinlega vera; einn dagur skal líka vera hinn síðasti af voru mæðufulla lífi hjer á jörðunni, eins og þessi dagur er hinn síðasti þessa vetrar, og sá dagur skal fyrst í sönnum skilningi geta heitið vor endurlausnardagur, því eptir hann skal oss upp renna hið eilífa sumar gleðinnar og lausnarinnar í ríki guðs dýrðar. Horfum sífelldlega til þessa mikla lausnardags, til þess æ betur og betur að geta losazt við vorar hjegómlegu óskir og búksorg; því hvers vegna skyldum vjer láta það raska sælu vorri, sem á innan skammrar stundar að yfirgefa oss, og hvers vegna skyldum vjer halda, að það geti stuðlað til hennar og eigi skilið hjarta vort og elsku, sem innan lítils tíma á að yfirgefa oss? Horfum í sorg og í gleði til þessa lausnardags, til þess að kunna oss hóf í því hvorutveggja, og til þess að læra að vera stilltir og lítillátir í meðlætinu, en vongóðir og þolinmóðir í mótlætinu. Helgum vorum himneska föður allt vort hjarta og alla vora elsku, alla vora krapta, orð vor og gjörðir, því á þessum vorum síðasta endurlausnardegi verður hann það eina

sem vjer getum haldið oss til, og vort einasta gleðiefni; venjum oss á í tíma, að umgangast hann í trúnni og í bœninni og yfirveguninni um hans dýrðlegu stjórn og hans ótölulegu dásemdir, því allt hið stundlega líður undir lok og öll tímaskipti hætta, en guð er vor guð frá eilífð til eilífðar. Hann láti oss af miskun sinni öðlast þá gleði í fullkomnum skilningi, sem engin sorg, enginn kvíði dregur framar úr, sem er þakklát og frœðandi og eilíf, öðlast hana, þegar vjer höfum gengið hið mikla fótmál frá tímanum inn í eilífðina. Honum sje lof og dýrð fyrir þennan liðna vetur, og fyrir sína dásamlegu miskun við oss á honum, lof og dýrð fyrir alla sína miskun og trúfesti við oss, lof og dýrð frá eilífð til eilífðar. Amen.

---

# III.

# Á FYRSTA SUMARDAG.

**Es. 60., 1.:**

**Stattu upp og taktu við birtunni, því að ljós þitt kemur, og dýrðin drottins rennur upp yfir þjer.**

Svona ávarpaði Esaias spámaður Gyðinga forðum, til þess að áminna þá um, að fagna tíma þeim, sem þeim átti að renna upp undir Messíasi; á honum trúðu Gyðingar að þeim mundi hlotnast alls konar blessun, andleg og líkamleg; þeir hjeldu, að hann mundi verða ævarandi sumar, og þess vegna segir spámaðurinn Amos, „að erjandanum skuli þá lenda saman við kornskurðarmanninn, og víntroðslumanninum saman við sáðmanninn" (Amos 9., 13.); á honum hjeldu þeir einnig að hagur þeirra mundi standa í samsvarandi blóma við blóma sumarsins. Með orðunum „ljós" og „dýrð" í áminningu spámannsins er því, meðal annars, meint bæði ljós og dýrð tímans og hinna jarðnesku hagsælda, sem Gyðingum áttu að hlotnast undir Messíasi. Vjer höfum því fullan rjett til að áminna sjálfa oss með þessum orðum á hinum fyrsta degi þessa sumars, því að sjerhvert sumar flytur oss líka ljós af hæðum og lætur dýrð drottins renna upp yfir oss. Á þessari stundu skulum vjer því láta hugleiðingar vorar nema staðar við þessi orð spámannsins Esaiasar, er vjer nýlega heyrðum, til þess að yfirvega, hvernig vjer eigum að taka sumrinu, sem vjer nú erum að byrja;

en þú, drottinn, sem lætur þína dýrð renna upp yfir oss á hverju sumri, láttu hana líka renna upp í hjörtum vorum með lotningu og tilbeiðslu trúarinnar, sem lætur oss finna til, að þú ert sjálfur hið æðsta og bezta af öllum þínum ástgjöfum.

Stattu upp og taktu við birtunni, því ljós þitt kemur, og dýrðin drottins rennur upp yfir þjer. Þessu hlýðum vjer, þegar vjer tökum sumrinu með gleði. Hinir dimmu og döpru skammdegis- og vetrar-dagar eru nú á enda, en hinir björtu og glaðlegu sumardagar fara í hönd; myrkur og dimmviðri vetrarins eru oss svo ógeðfelld, og vjer þreyjum birtu hinna löngu sumardaga, meðan á vetrinum stendur; hversu eðlilegt er þá ekki, að vjer hlýðum boði spámannsins, þegar sumarið er komið, að standa upp og taka við birtunni, að vera, með öðrum orðum, glaðir og þakklátir fyrir hina góðu gjöf drottins, hið bjarta og lífgandi sumar. Þessi birta sumarsins er oss líka svo geðfelld, af því hún er samfara hinum lífgandi yl; myrkur vetrarins eru vön að hafa kuldann í för með sjer, og vjer eigum þá gjarnan baráttu við það hvorttveggja, og höfum líka átt það á hinum umliðna vetri; en nú er sumarið komið, til þess að stríða við þessa óvini vora fyrir oss, og það kemur á þeim tíma, þegar vjer þurftum hjálparinnar helzt, því að hefði stríði þessu haldið á fram tölu-vert lengur, mundi óblíða vetrarins hafa borið sigurinn úr býtum. Þessi skylda vor, sem spámaðurinn áminnir oss um, er oss því að vísu geðfelld og ljúf, en hún verður oss þó ljúfari, af því að vjer vitum, að náttúran í kring um oss verður að uppfylla hana með oss; hin skynlausu dýrin fagna yfir sigri ljóssins

og hitans, og vilja ekki lengur halda til í því skýli, sem þau höfðu, meðan á vetrinum stóð; grös og jurtir jarðarinnar uppfylla hana líka, því að þau fara nú að lypta höfðum sínum upp úr hinum dimmu fylgsnum jarðarinnar, til þess að fagna yfir birtu sumarsins. Látum það heldur ekki draga úr fögnuði vorum yfir komu þess, að vjer vitum svo lítið, hvað það kann að hafa oss geymt; í orðum spámannsins liggur einnig áminning um, að taka við hinni vermandi birtu trúarinnar, sem hrekur hin köldu myrkur sorganna, og sá gengur ekki heldur rjettilega í birtu gleðinnar, sem ekki tekur við birtu guðs fyrirheita og trúarinnar.

Stattu upp og taktu við birtunni, því að ljós þitt kemur, og dýrðin drottins rennur upp fyrir þjer. Þessu hlýðum vjer, þegar vjer tökum sumrinu með trúnni. Menn segja svo opt, eða að minnsta kosti virðast að ímynda sjer, að trúarinnar ljós sje sjer í lagi ætlað hinum mótlættu; það er og satt, að þeir þurfa þess einkum við, til þess að geta öðlazt þá gleði, sem heimurinn synjar þeim um; en hvað verður líka úr ljósi hinna glöðu, ef þeir ekki ganga í ljósi guðsbarna, trúnni? Hafi mótlætið við sig ýmislegar freistingar, og sumarið getur ekki undan þegið neinn af oss frá mótlætinu, ef drottni þóknast að senda oss það, þá hefur meðlætið þær ekki síður, og ef hann ætlar að láta oss falla það í skaut á sumri því, sem nú fer í hönd, þá þurfum vjer, ekki síður en hinir sorgbitnu, að taka við birtu þessa ljóss. Vjer vitum ekki yfir höfuð, hvað hinn ókomni tími hefur oss geymt; en það vitum vjer, að vor jarðneski hagur er svo mikið kominn undir blessun drottins á

sumrin; hafi hann ætlað á sumri þessu að synja oss hennar venju framar, ellegar að leggja á oss einhvern þann kross, sem myrkvar fyrir oss sumarsins gleði, þá viljum vjer taka því með auðmýkt og trúnaðartrausti; vjer viljum í ljósi trúarinnar taka sumrinu, með því að sjá í því pant upp á farsælan enda mótlætisins, því að drottinn sendir oss ætíð sumar eptir vetur, lætur hið stríða endast með hinu blíða, og baráttuna með sigri; hafi hann þar á mót ætlað oss allsháttaða blessun, þá viljum vjer einnig læra í ljósi trúarinnar, að taka henni eins og gjöf drottins með þakklátu hjarta, og minnast þess, að eins og vjer gefum oss ekki sjálfir sumarið, eins gefum vjer oss ekki heldur sjálfum blessun þess; vjer viljum sí og æ vera þess minnugir, að vjer í engri velsælu lífsins eigum að gleyma sælu guðsbarna, og yfir höfuð leitast við, að ganga í birtu þessa ljóss, til þess að stunda með dyggð og trúmennsku köllun vora á komandi sumri, og því sneiða bæði hjá ofmikilli búksorg, og líka hirðuleysi og leti. Hversu margt minnir oss ekki einnig á sumrin á, að treysta vorum himneska föður, og að varast áhyggjur og búksorg? Frelsari vor segir oss, að læra af fuglum himinsins og liljum vallarins traustið á guðlegri forsjón (Matt. 6, 26.—28.), og þessa kennara höfum vjer ávallt fyrir augum vorum á sumrin; vjer viljum líka varast, að eyða sumrinu í leti og til óþarfa, af því að það er náðartími drottins til undirbúnings vetrinum, og, eins og allur tími, til undirbúnings eilífðinni. Ef vjer göngum þannig í birtu trúarinnar, um leið og vjer göngum í birtu sumarsólarinnar, þá getum vjer vitað fyrir fram, að þetta komandi sumar verður

oss hollt og blessað, hvort sem það heldur flytur oss sorg eða gleði, skort eða gnægtir, því að allt skal þjena þeim til góðs, sem guð elska (Róm. 8., 28.).

Stattu upp og taktu við birtunni, því að ljós þitt kemur, og dýrðin drottins rennur upp yfir þjer. Þessu hlýðnumst vjer, þegar vjer fögnum sumrinu með elskunni til guðs; dýrðin drottins rennur að vísu æfinlega upp yfir oss, og laðar oss til að elska vorn himneska velgjörara, en þó sjer í lagi á sumrin; hún rennur upp fyrir oss á veturna, í ofveðrunum, í kulda og hagli, en hún rennur þá upp til þess, að skelfa oss, en á sumrin rennur hún upp til þess, að lífga oss og innræta oss elskuna til vors himneska föður. Öll náttúran, sem á hinum umliðna vetri lá í dái, er nú að lifna við á ný; hið lifandi og hið dauða býr sig nú til, að votta elsku sína til guðs og að vegsama hann; öll náttúran er musteri það, sem þessi lofgjörð fer fram í; hinn fagri morgunroði vekur ekki að eins það, sem getur hreift sig, heldur jafnvel grös og blóm, til þess að taka þátt í þessari lofgjörð um skaparann; sólin ljómar þetta musteri á daginn, og kveldroðinn gyllir það á kveldin, og minnir hinn vegsamandi skara, að taka á sig værð, til þess að geta endurnýjað hina sömu lofgjörð hinn komandi dag. Hinn glaði fugl prísar guðs dýrð með hinum inndæla söng, sem hann fyllir loptið með, og þær skepnur guðs, sem ekki geta prísað hann á þennan hátt, gjöra það þó með lífi því og gleði, sem æfinlega er vitnisburður sælunnar, því að þær allar mettast af drottins örlæti á sumrin; já, allar lifandi skepnur prísa guð á sumrin í þessu stóra musteri hans, náttúrunni, með iðjusemi og hreifingu

frá morgni til kvelds, og loka augum sínum að kveldi sjerhvers dags með þeim vitnisburði, að þær á honum hafi fengið allar þarfir sínar mettaðar. Fyrst þá öll náttúran fyrir utan oss flytur guði þannig lofgjörð á sumrin, og fórnar honum því, sem hún hefur færi á, skyldum vjer þá, sem flestar velgjörðir þiggjum af honum, vera þeir einu, sem ekki færðum honum allar þær fórnir elsku og lotningar, sem vjer getum látið honum í tje? Vjer getum ekki varizt, að fórna honum ósjálfráðri gleði, ekki varizt, að prísa gæzku hans, ásamt hinum skynlausu dýrum, með meiri starfsemi en á veturna; en ættum vjer þá ekki líka að fórna honum því, sem vjer getum látið honum í tje fram yfir dýrin, lofgjörð hinnar innilegu elsku og þakklátsemi? Vjer segjum svo opt, að vjer viljum heldur gangast fyrir hinu blíða, heldur en hinu stríða; sýnum það þá líka, að hin ótölulegu merki guðs gæzku á sumrinu geti fremur glætt hjá oss hinar heilögu tilfinningar elskunnar, heldur en vottur hans rjettlætis og strangleika á hinum umliðna vetri. Ef gæzka guðs á sumrin kveykir elskuna þannig í hjörtum vorum til gjafarans, þá er það sjer í lagi, að vjer tökum sumrinu, eins og vera ber, því að dýrðin drottins rennur þá ekki að eins upp fyrir utan oss, heldur og einnig í hjörtum vorum, og til þess á öll dýrð hans í náttúrunni æfinlega að stuðla.

Stattu upp og taktu við birtunni, því þitt ljós kemur, og dýrðin drottins rennur upp yfir þjer. Þessu hlýðum vjer, þegar vjer tökum sumrinu með voninni. Margar vonir kvikna í hjarta mannsins, og sjerhver sá, sem hefur við eitthvað örðugt að berjast, hefur einkanlega vonina sjer til ljettis og huggunar;

í henni njótum vjer og opt fyrir fram margra þeirra gæða, sem vjer óskum oss, hvort sem þessar óskir uppfyllast eða ekki, því að vonin og óskin fylgjast ávallt að í hjarta mannsins; en margar vonir vorar eru ýmist of barnalegar, of syndsamlegar eða skaðlegar, til þess að drottinn láti þær allar uppfyllast; en það er til ein von, og á hana minnir sumarið oss, sem æfinlega getur rætzt, ef vjer gjörum það allt, sem í voru valdi stendur, til þess að hún rætist, og það er vonin um eilíft líf. Sumarið er lausnar- og upprisu-tími lífsins; vjer losumst á því við vetrarins hættur og andstreymi, og allt það, sem lífsanda hefur í kring um oss, virðist þá að lifna til nýrrar tilveru; þau grös, sem ljetu líf sitt fyrir óblíðu vetrarins, rísa upp af hinu rotnaða hismi í nýjum blóma, og hinar lifandi skepnur finna nýtt líf og fjör kvikna í limum sínum. Svona óskum vjer einnig opt, að losast við vetur þessa jarðneska lífs, og vjer þreyjum hið eilífa fagnaðarsæla sumar guðs dýrðar, og sumarið lætur þessa ósk verða að lifandi von, sem sýnir oss fram á, að líkamir vorir, sem sáð verður í jarðarinnar skaut á hausti lífs vors, muni rísa upp á vori hins eilífa sumars af hismi hinna gömlu lima, til þess að deyja aldrei framar, af því þeir rísa upp aptur óforgengilegir (1. Kor. 15., 42.). Oss langar svo opt til, eins og postulinn segir, að leysast hjeðan, og vera með Kristi (Filipp. 1., 23.); vjer spyrjum opt sjálfa oss með hinum sama postula, hver leysa vilji oss vesala menn frá líkama þessa dauða (Róm. 7., 24.), af því vjer þreyjum og vonum eptir lausn og gleði hins eilífa sumars. Þá tökum vjer fyrst algjörlega, bræður mínir, eins og vera ber, við birtu

þessa sumars, ef vjer höndlum í voninni hið eilífa mitt í hinu tímanlega, og berum hið skammvinna jarðneska böl með þolinmæði, af því að vjer vitum, að það „verkar á síðan eilífrar dýrðar ómetanlega þyngd“, og ef vjer látum þessa von æfinlega stjórna svo vorri gleði yfir þessu jarðneska, að þessi gleði aldrei glepji svo sjónir vorar, að vjer leyfum henni að fara út fyrir guðhræðslunnar og siðseminnar takmörk. Enn þá nokkur augnablik, og svo er einnig þetta sumar runnið upp yfir oss; hvað þessi augnablik verði mörg, vitum vjer ekki, en þangað til þau eru út runnin, viljum vjer bíða hins eilífa sumars í voninni.

Vertu oss því velkomið, blessaða sumar; vjer viljum taka þjer með gleði, með trú, með elsku og með von, og láta þær vera vora förunauta á vegferðinni gegn um lífið; þegar orð spámannsins, sem vjer höfum yfirvegað á þessari stundu, hljóma fyrir eyrum vorum á hinum hinnstu stundum vors jarðneska lífs, þá viljum vjer hlýða þeim, og fagna hinu eilífa sumri á líkan hátt, og vjer fögnum þjer í dag; gleðin og trúin og elskan og vonin skulu þá vera vorir förunautar til sumars eilífðarinnar, því annað fylgir oss þá ekki. Amen.

---

# IV.

# Á SÍÐASTA DAG SUMARS.

---

**Post. g. 14., 17.:**

**Guð hefur aldrei látið sjálfan sig án vitnisburðar, þar eð hann hvervetna gjörði yður gott, veitti regn af himni og frjóvsamar árstíðir, og mettaði yður með fæðu og fögnuði.**

Svo eru þá síðustu stundir þessa sumars komnar yfir oss, og á morgun verða þær einnig algjörlega liðnar; að vísu bíður tíminn ekki við eitt augnablik, en sjer í lagi finnst oss þó sá tími líða fljótast, sem vjer höfum notið mestrar ánœgju á; svona finnst oss og sumarið líða fljótar en veturinn, af því það er oss inndælla en hann; vjer fögnum því æfinlega komu þess, og kveðjum það nauðugir, af því vjer kvíðum þeim tíma, sem fer í hönd, þegar sumrinu sleppir; á þessari stundu erum vjer vissulega heldur ekki eins glaðir, og þegar vjer heilsuðum því við komu þess; oss finnst það vera liðið langtum fyr, en vjer bjugg-umst við. Já, að sönnu er sumar þetta að mestu leyti liðið, en sá, sem er þakklátur og minnist drottins velgjörða á því, honum þarf ekki að vera það algjörlega horfið, því að hann getur æfinlega lifað það upp aptur í þakklátri endurminning; og hver af oss hefur ekki tilefni til að votta drottni þakklæti vort fyrir þetta liðna sumar á hinum síðustu stund-um þess, og að láta ekki hugann eingöngu dvelja við daprar og kvíðafullar hugsanir vegna hins óblíða tíma

vetrarins, sem fer í hönd, heldur að snúa honum til hinna liðnu sumardaga, og til þeirrar blessunar, sem þeir, hver eptir annan, ljetu falla oss í skaut. Þannig sneri líka Páll og Barnabas hugsunum Íkoníuborgar íbúa að vitnisburði guðs um sjálfan sig á hinum umliðna tíma, þegar þeir sögðu þeim, að guð hefði aldrei látið sjálfan sig án vitnisburðar, af því hann hefði hvervetna gjört þeim gott, veitt regn af himni og frjóvsamar árstíðir, og mettað hjörtu þeirra með fæðu og fögnuði; þennan vitnisburð gefur guð sjer á sjerhverju sumri, og hefur einnig gefið sjer hann á hinu síðasta. Látum oss því snúa huga vorum að þessum vitnisburði guðs, sem hann hefur gefið sjálfum sjer í náttúrunnar blíðu á umliðnu sumri, að því leyti, sem þessi orð postulanna gefa oss tilefni til. Blessa þú oss, drottinn, þessar hugleiðingar, og láttu oss af þeim upp skera kristilega skoðun á tímanum.

Guð vitnar um sína trúfesti í sumarsins blíðu. Vjer köllum þann trúfastan, sem efnir sjerhvað það, sem hann hefur lofað, og frá öndverðu hafði drottinn lofað, að meðan jörðin væri við lýði, skyldi aldrei vanta vor og haust, kulda og hita, sumar og vetur, dag og nótt (1. Mós. 8., 22.). Frá því þetta loforð var gefið, hefur og drottinn æfinlega efnt það, og mun efna það hjer eptir, því hverju sem drottinn lofar, það efnir hann vissulega (Sálm. 33., 4.). Hið liðna sumar er oss nýr vottur þessarar trúfesti hans, og skyldi það ekki vera meiri ástæða fyrir oss, að dvelja við yfirvegun hennar, heldur en að kvíða hinum komandi vetri og sakna hins liðna sumars? Öll drottins loforð eru oss bæði í sjálfum sjer svo gleðileg, því

þau innibinda allt það gott, andlegt og líkamlegt, eilíft og tímanlegt, sem vjer getum óskað oss, og líka vegna þess, að vjer svo sjaldan getum reitt oss á trúfesti heimsins og mannanna. Heimsins glys yfirgefur oss fyr eða síðar, og mennirnir geta lofað, og þá getur langað til, að efna þessi loforð, en eigi að síður geta þau brugðizt, af því þeir hafa ekki vald yfir kringumstæðunum; en þeir geta líka sjeð sig um hönd af ljettúð og af eigingirni, og metið helgi trúmennskunnar eptir ábatanum, en ekki samvizkunni; en svona eru ekki drottins loforð; þau eru ekki bundin við hans eigin, heldur eingöngu við hagsmuni sjálfra vor; hann bindur æfinlega sín fyrirheit við eitthvert það skilyrði, sem undir sjálfum oss er komið hvort vjer uppfyllum eða ekki, og svo sannarlega, sem vjer reynumst sjálfum oss trúir, mun hann og reynast oss það; hann hefur þannig gefið oss fyrirheit um sumarið, en bundið það við það skilyrði, að vjer notuðum það með árvekni og iðjusemi í vorri köllun, því að vjer eigum að neyta vors brauðs í sveita vors andlitis; vjer sjáum líka hvervetna kring um oss vott þessarar trúfesti drottins, því að hann hefur á liðnu sumri blessað starfa vorn, svo vjer höfum safnað svo miklum forða, sem líkindi eru til að verði oss, með skynsamlegri notkun, nægilegur, þangað til hans trúfesti lætur aptur nýtt sumar renna upp yfir oss með nýrri blessun og með nýjum unaðsemdum. Sá hefur því helzt tilefni til, að sakna þessa liðna sumars og kvíða hinum komandi vetri, sem vanrækt hefur að nota það, og sem ekki hefur minnzt þess, fyr en of seint, að það átti þó einu sinni að líða; hinir hafa þar á mót ekkert tilefni til, að kvíða umskiptum

sumars og vetrar, því að þeir sjá ekki annað í þeim, en nýjan vott um trúfesti drottins. Hversu gleðilegur er þá ekki þessi vitnisburður hans um trúfesti sína? hann er opt hið einasta og æfinlega hið áreiðanlegasta hæli, sem vjer höfum að flýja til í óstöðugleik og ótrúmennsku heimsins; sá guð, sem reyndist oss trúr á hinu umliðna sumri, hann hefur líka heitið oss, að láta oss aldrei rata í meiri freistni, en vjer fáum staðizt (1. Kor. 10., 13.), og með þessu fyrirheiti skulum vjer hugga oss, og taka því vonglaðir hinum komandi vetri.

Guð vitnar um sína gæzku, sitt almætti og sína speki í sumarsins blíðu. Ef vjer sæjum, að guð hefði skapað sínar skepnur með mörgum þeim þörfum, sem lítið eða ekkert færi væri á að metta, þá bæri sumarið vissulega ekki heldur eins mikinn vott um guðs gæzku, og það gjörir. Ef vjer sæjum ekki drottinn sí og æ fram leiða nýjar skepnur og ný blóm og nýtt líf í stað hins dána, þá vantaði oss mikið af því, sem vjer ætlumst til af almætti hans, því almættinu heyrir ekki síður til að við halda, með því að skapa æ á ný, heldur en að láta alla hluti hafa orðið til upphaflega af engu. Ef vjer þættumst geta fullyrt, að ýmsu hefði mátt betur haga í ríki náttúrunnar og niðurskipun tímanna, heldur en gjört er, þá vantaði oss líka mikið af því, er vjer köllum guðs vitnisburð um hans speki. En ekkert af þessu getur jafnvel vantrúin sagt, og það er sjer í lagi hvert sumar, sem hrekur efasemi hennar með sínum hátalaða vitnisburði um gæzku, almætti og speki vors himneska föður. Á þessu sumri, sem nú er að segja skilið við oss, hefur gæzka hans á ný

lokið upp öllum fjársjóðum sinna gnœgta, og mettað allar sínar skepnur með sinni blessun; hann hefur engri þeirra gleymt, ekki jafnvel hinni lítilmótlegustu, sem enginn annar veitir eptirtekt; hinn auðvirðilegi ormur hefur ekki síður getað fengið það, sem þarfir hans heimtuðu, heldur en hin ágætasta skepna jarðarinnar, maðurinn; hann hefur skipað loptinu, jörðunni og sjónum, að láta öllum sínum lifandi skepnum það í tje, sem þarfir þeirra heimtuðu, og um leið og hann mettaði þær með fœðu, ljet hann líka hjörtu þeirra gleðjast af unaðsemdum sumarsins, svo að engri þörf, engri skepnu hefur verið gleymt í hinu dásamlega ríki vors himneska föður. Svona fagran vitnisburð ber drottinn sinni gœzku í blíðu hins liðna sumars, en hann hefur ekki síður borið almætti sínu hann; hver getur talið hinn ótölulega grúa af grösum og dýrum, sem hann hefur á því látið öðlast líf og þroska, til þess að bera almætti sínu vitnisburð? að boði síns almættis ljet hann og regnið frjóvga jörðina og sólina senda yl og birtu, dýrum og grösum til lífs og viðurhalds; hann ljet í einu orði alla náttúruna vera samtaka í því, að hjálpa oss mönnunum, til að geta notið hans ótölulegu blessana. Sínum vísdómi hefur hann og líka borið vitnisburð á þessu sumri eins og á öllum umliðnum sumrum, því hversu vísdómsleg er ekki hin margbreytta lífsglœðing á sumrin, og meðulin til hennar; flest dýr fœðast á sumrin, af því þeirra veika lífi þá getur helzt verið borgið; þá vermir og lífgar ylur og birta sumarsólarinnar þau; þá er allt við höndina, til að ala önn fyrir hinu nýkviknaða lífi með fœðu og aðhlynningu. Hversu mikla margbreytni sýnir ekki líka hans vís-

dómur í því, að láta sjerhvern ávöxt jarðarinnar hafa sinn vissa tilgang, svo að sín jurtin er handa hverri skepnu, eptir mismunandi þörfum þeirra, þeim til viðurhalds. En hversu lítið skynjum vjer þó ekki skammsýnir menn af öllum hinum margbreytta vitnisburði guðs í sumarsins blíðu um gœzku hans, almætti og vísdóm? og þó sjáum vjer svo mikið, að vjer getum ekki annað, en tekið undir með postulanum: „Ó þú dýpt speki, ríkdóms og þekkingar guðs“ (Róm. 11., 33.). Vjer getum ekki, þegar vjer minnumst guðs vitnisburðar í blíðu hins umliðna sumars, látið aðrar tilfinningar búa í hjörtum vorum, en lotningu, þakklátsemi og gleði; vjer söknum því ekki sumarsins, því vjer höldum því enn í þakklátri endurminning við gjafarann; vjer kvíðum ekki heldur hinum komandi vetri, því þessi endurminning glœðir þá sannfœring í hjörtum vorum, að vjer stöndum undir stjórn tímanna drottins, sem bæði er trúfastur, gœzkuríkur, almáttugur og vísdómsfullur, og sem því ekki mun yfirgefa oss á hinum komandi tíma, heldur gefa oss sí og æ nýtt og nýtt tilefni til þakklætis og elsku, til tilbeiðslu og fagnaðar.

Þó sá vitnisburður drottins um sjálfan sig, sem vjer höfum sjeð að fólginn er í orðum postulanna, er vjer gjörðum að íhugunarefni voru, virðist svo gleðilegur og huggandi, að hann sje nœgilegur til að út rýma öllum döprum hugsunum úr hjörtum vorum, þá innibinda þó þessi orð postulanna enn einn vitnisburð guðs um sjálfan sig, sem er hinn huggunarríkasti, að drottinn sje bæði óendanlegur og óumbreytanlegur, og eigi því að vera oss allt. Allt í kring um oss er endanlegt og breytingu undir-

orpið; lífið kviknar, til þess að deyja; vjer sjálfir öðlumst tilveru hjer á jörðunni með því skilyrði, að hið fyrsta augnablik þessarar tilveru vígir oss hinu síðasta, þegar vjer aptur eigum að missa hana. Þetta sumar hefur líka hlýtt þessu allsherjarlögmáli hins skapaða, og það er nú þegar á enda með öllum sínum unaðsemdum. Postularnir tala líka um það sem umliðið, að drottinn hafi veitt dögg af himni og frjóvsamar árstíðir, og það hið sama getum vjer líka sagt á þessari stundu, því að hið frjóvgandi regn fellur ekki lengur úr loptinu, heldur er nú sá tími kominn, að það fer að breytast í hinn kalda snjó, en vjer hefjum þá huga vorn frá öllu hinu endanlega og breytilega upp til hans, sem er í gær og í dag og að eilífu hinn sami, og sem aldrei lætur sig án vitnisburðar, af því hann aldrei breytist og hefur enga takmörkun. Vjer viljum því nema af þessum vitnisburði drottins um hið hverfula, sem æfinlega verður sagt um, eins og á morgun verður sagt um þetta sumar: það var, en er nú ekki lengur; vjer viljum nema af þessum vitnisburði, að treysta honum einum af öllu voru hjarta. Sá kemur tíminn, að sagt verður um allt hið stundlega: „það er liðið, og vjer getum ekki haldið oss til neins annars en guðs“; vjer viljum því kappkosta hjer í tímanum, að vera svo viðbúnir, að vjer þá getum glatt oss við, að birtast frammi fyrir tímanna drottni og skapara heimsins, vegna þess vjer höfum þegar hjer á jörðunni haft gleði vora af umgengninni við hann. Þetta liðna sumar skal kenna oss, að snúa huga vorum frá hinu hverfula til hins eilífa, og vjer skulum á hverri stundu vera búnir til að fara hjeðan fúsir og glaðir,

þegar hann kallar oss, sem engin umbreyting er hjá nje umbreytingarskuggi (Jak. 1., 17.).

Líð þú þá út til enda, blessaða sumar; þú ert eitt af hinu stundlega, sem vjer ekki skulum sakna, en vjer viljum geyma þig í minningu vorri, til þess að þakka guði vorum fyrir þig, og til þess að læra, að treysta honum æfinlega, hvernig sem hagur vor að öðru leyti kann að vera. Fegurð þessa heims líður undir lok (1. Kor. 7., 31.), en þú, vor himneski faðir, ert vor guð frá eilífð til eilífðar. Amen.

# V.

## Á FYRSTA VETRARDAG.

**Jesú Sírak, 39., 39.—40.:**

**Öll drottins verk eru góð, og gjöra öll gagn á sínum tíma, og menn skulu ekki segja: þetta er lakara en hitt, því að allt reynist gott á sínum tíma.**

Það er vissulega gott, að vjer minnum oss á þessi orð, þegar vjer nú erum að byrja þann kafla ársins, sem oss er vanur að þykja svo kvíðvænlegur, af því vjer bæði kveðjum hið inndæla sumar við komu hans, og eigum fyrir höndum á honum þá baráttu við óblíðu náttúrunnar, sem æfinlega má eiga víst að verður oss erfið, ef hún ekki að öllu leyti ber oss ofurliði; sjaldan líður heldur nokkur vetur svo út til enda, að vjer heyrum ekki, að einhver af samferðamönnum vorum á vegi lífsins hafi annaðhvort orðið fyrir skemmdum, eða látið lífið, fyrir hörku veðráttunnar á vetrartímanum, og þess vegna hættir oss svo mjög við að segja, að veturinn sje lakari en sumarið, og að gjöra þannig greinarmun á verkum drottins, því að það er hann, sem ekki hefur síður gjört veturinn, sem vjer kvíðum, heldur en sumarið, sem vjer fögnum; en þá breytum vjer á móti áminningu Síraks, sem tekur það fram við oss, „að öll drottins verk sjeu góð, og að vjer skulum því ekki segja, að þetta sje lakara en hitt, því að það reynist allt gott á sínum tíma“. Því verður þó ekki neitað, að veturinn

er ekki vanur að hafa sömu veðurblíðu í för með sjer, eins og sumarið, nje að lífga oss með jafnglaðlegu yfirbragði allrar náttúrunnar fyrir utan oss, eins og það, og þegar vjer því eigum að hlýða Sírak í því, að álíta veturinn ekki lakari en sumarið, þá megum vjer ekki meta hann eptir því, hvað hann er oss þægilegur eða óþægilegur í bráðina, heldur verðum vjer að líta bæði til hins umliðna og hins yfirstandandi og hins ókomna tíma, til þess að geta metið hann rjettilega. Um leið og vjer því heimfærum þessi orð Síraks upp á veturinn, „að allt reynist gott á sínum tíma“, og gjörum það til þess, að sætta oss við örðugleika hans, skulum vjer láta hugleiðingar vorar á þessari stundu dvelja við þá hugsun, að bæði hinn umliðni, hinn yfirstandandi og hinn ókomni tími sannfæri oss um, að veturinn reynist góður á sínum tíma. Gefðu oss náð til þess, eilífi tímanna stjórnari, að geta bæði í blíðu og stríðu kannazt við speki þína og gæzku, svo að vjer aldrei möglum yfir hinu örðuga, eða kvíðum hinu tilkomanda, af því vjer skoðum það eins og tilgangslausar álögur.

Hinn umliðni tíminn sannfærir oss um, að veturinn reynist góður á sínum tíma, Svo víst sem það er, að erfiði og fyrirhyggja er manninum bæði hollt og ómissandi, svo víst er það og, að sá vetur, sem nú er kominn yfir oss, reynist góður á sínum tíma; því að hann hefur knúð oss til erfiðis og fyrirhyggju á hinu umliðna sumri, til þess að vjer skyldum verða viðbúnir, að taka honum, þegar hann kæmi. Veturinn er oss því hollur, vegna þess að erfiði sumarsins og fyrirhyggja styrkir krapta vora,

og ver oss óteljandi hrösunum; margir kvarta að vísu undan, að erfiðið slíti kröptum sínum, en þeir aðgæta ekki, að iðjuleysið gjörir það langtum fremur, og auk þess er erfiðið vant að hafa margar dyggðir í för með sjer, sem letin og iðjuleysið drepur niður; hinn iðjusami er optast ánægður, glaðlyndur og bindindissamur, hinn iðjulausi aptur á móti óánægður, möglunargjarn og svallsamur. En veturinn er oss ekki að eins hollur, heldur og jafnvel ómissandi, til þess að halda oss innan takmarka skyldunnar. Af náttúrunni erum vjer allir meira eða minna hneigðir til munaðar og iðjuleysis, og ef sumarið endaði ekki með vetri, heldur hjeldist sí og æ, þá mundum vjer skjótt vanrækja þá skyldu vora, að erfiða, og með þeim hætti fara á mis við þá blessun, sem erfiðið hefur í för með sjer. Þar að auki er það vetrinum sjer í lagi að þakka, að oss þykir svo mikið varið í árangur starfa vors; hefðum vjer ævarandi sumar, og þyrftum því lítið sem ekkert að hafa fyrir lífi voru, þá mundi oss skjótt þykja lítið koma til blessunar drottins, sem oss hlotnaðist fyrirhafnarlaust, og hið mesta vanþakklæti og kuldi taka sjer bústað í hjörtum vorum í stað þakklátsemi þeirrar og elsku, sem sumarið einkum minnir oss á að hann æfinlega eigi af oss skilið. Af ævarandi sumri mundi og leiða, að mikið af þeirri gleði, sem samfara er meðvitundinni um dyggilega þjónustu, hyrfi úr lífi voru; hinar mörgu hvíldarstundir lífsins, sem oss eru vanar að vera svo ánægjuríkar, af því vjer finnum til, að vjer eigum þær skilið með erfiði og trúmennsku í stöðu vorri, mundu þá einnig hverfa, og bætast við hinar mörgu svalls- og iðjuleysis-stundir, til þess að draga á eptir sjer

fjölda þeirra stunda, sem á síðan mundu baka oss óánægju, og jafnvel samvizkubrigzlis, vegna þess að tíminn væri floginn burt, annaðhvort án þess að vjer hefðum notað hann, ellegar þá varið honum til ills. Þegar vjer því á þessari stundu lítum til þess sumars, sem kvaddi oss í gær, þá getum vjer með sanni sagt, að það sje engin þess stund, sem ekki beri hinum nýbyrjaða vetri þann vitnisburð, að hann reynist góður á sínum tíma; því að honum er það að þakka, að vjer höfum gegnt hinni hollu skyldu, að erfiða, og að vjer njótum nú þeirrar blessunar, sem æðst er allra tímanlegra gæða, glaðrar meðvitundar yfir vel notuðum tíma, og að vjer þar að auki finnum til lifandi þakklátsemi við gjafarann allra góðra hluta fyrir þá blessun, sem hann krýndi starfa vorn með á hinu umliðna sumri, og þannig sannfærir hinn umliðni tími oss um sannleikann í orðum Síraks, þegar vjer heimfærum þau upp á veturinn, „að allt reynist gott á sínum tíma“.

Hinn yfirstandandi tíminn gjörir það jafnvel líka. Það er oss allt saman hollt, sem kemur oss til alvarlegra hugleiðinga, og til þess, að rannsaka vort eigið hjarta. Það má nú að vísu segja um allan tíma, að hann eigi að mennta oss í kristilegri alvöru og í þekkingu á skyldum vorum og sjálfum oss; en á móti því verður heldur ekki borið, að sumir tímar eru langtum hættulegri fyrir köllun vora í þessu tilliti heldur en sumir; sumarið heimtar sjer í lagi af oss iðjusemi og áhuga í vorri jarðnesku köllun; hinn glaðlegi svipur náttúrunnar á sumrin leggst á eitt með vorum jarðnesku þörfum, til þess að snúa allri hugsun vorri út á við, en þegar veturinn

kemur, verður náttúran fyrir utan oss svo döpur, að hún tælir oss ekki lengur til þess, að gleyma sjálfum oss, vegna umgengninnar við hana; samkomur vorar innbyrðis verða líka torveldari á veturna en sumrin, og vjer verðum því eins og neyddir til, að umgangast meira vort eigið hjarta á þeim tíma, sem nú fer í hönd, heldur en þeim, sem kvaddi oss í gær. Því fremur sem ástandi vors innra manns er ábótavant, því fremur leitumst vjer og við að forðast alla umgengni við sjálfa oss, því að vjer kvíðum fyrir, að sjá vora eigin mynd í spegli sjálfsprófunarinnar, og þess vegna þurfum vjer einhvers þess aðhalds, sem knýr oss til þessarar alvarlegu umgengni við guð og við vort eigið hjarta. Þetta gjörir veturinn meðal annars, og á því er hinn góði siður byggður í landi voru, að menn láti engan dag svo hjá líða á veturna, að þeir hafi ekki guðsorð um hönd; það sýnir bæði, að þeir kannast við þessa þörf á alvarlegum hugleiðingum um sitt andlega ástand, og líka, að veturinn er sjer í lagi til þess fallinn. En þar að auki ber hinn yfirstandandi tími vott um, „að veturinn reynist góður á sínum tíma", ekki síður en sumarið, með því að hann er hvíldartími vor og náttúrunnar, og gefur oss þar að auki færi á tilbreytni í störfum vorum. Hann er hvíldartími vor og náttúrunnar; því að sumarið er erfiðistími bæði hennar og vor. Að sönnu er erfiðið ómissandi, en hvorki vjer eða náttúran fyrir utan oss getum til lengdar þolað hvíldarlausa áreynslu, og eins og sjerhver dagur hefur nóttina í för með sjer til hvíldar eptir annríki dagsins, eins er og veturinn hvíldartími eptir sumarið. Sá, sem hefur unnið trúlega sjerhvern liðinn dag, leggst

æfinlega með glöðu hjarta í hvílu sína að kveldi; því að hann finnur, að það hefur verið unnið, sem vinna átti hinn liðna dag, og svefninn verður honum þá svo vær og hollur, af því hans þreyttu limir þurfa hans við; en svefninn, sem lífgar hinn þreytta og iðjusama, hann þreytir hinn lata, og hann yfirgefur á hverjum morgni rekkju sína, án þess að finna til þeirrar lífgunar, sem svefninn veitir hinum þreytta starfsmanni; það er eins og honum nægi ekki hvíldartími grafarinnar, og vilji því greptra sjálfan sig lifandi í leti og aðgjörðaleysi. Sá, sem hefur unnið dyggilega á hinu umliðna sumri, honum verður og vetur þessi að ómissandi og lífgandi hvíldartíma, og hann byrjar hann í dag með þeirri glöðu meðvitund, að hann eigi hvíld þessa skilið, því að hann hafi starfað trúlega á hinu umliðna sumri, svo að hvorki hann nje hans þurfi að kvíða skorti nje harðviðri vetrarins; hinn lati aptur á móti hefur tilefni til, að bera sjer vanbrúkun þessa liðna sumars á brýn, og þess vegna kvíða hinum komandi vetri, því að eins og svefn hverrar nætur þreytir jafnvel hinn iðjulausa, eins verður og sjerhver vetur að þreyta hann með áhyggjum og árangurslausri baráttu. Hinn yfirstandandi tími ber og vetrinum vitni, „að hann reynist góður á sínum tíma“, með tilbreytni í störfum vorum. Lífið er þess eðlis, að það getur aldrei verið algjörlega án starfa, og jafnvel þegar það nýtur hinnar fullkomnustu værðar í skauti svefnsins, þá er það þó ekki að öllu leyti iðjulaust; en þessi iðja þreytir ekki, heldur lífgar; svona veitir og vor hvíldartími, veturinn, oss nægilegt tilefni til starfa, en þessi störf lífga oss vegna tilbreytninnar, fremur en að þau þreyti oss. Stundir vetrarins

eru opt langar og daprar, en allir geta gjört sjer þær stuttar og glaðlegar með ýmiss konar störfum, og sjer í lagi með því, að bregða upp birtu í sálu sinni með hverri helzt þekkingu, sem hann hefur löngun til. Sumarið gefur oss ekki mikið færi til andlegra starfa, en það gjörir veturinn því betur, og þess ógladlegra sem yfirbragð náttúrunnar er á veturna, þess minni er líka freistingin til þess, að slá slöku við þessi störf. Hið námfúsa ungmenni og sjerhver sá, sem hefur ánægju af framförum í andlegri menntun, getur bezt borið um, hvort veturinn sje ekki sannur hvíldartími fyrir hann, vegna þessarar tilbreytni í störfum hans, og hvort hann eigi ekki sjer í lagi þessum tíma að þakka margar gleðistundir og marga birtu í sálu sinni, sem sumarsólin með allri sinni birtu ekki var þó fær um að veita honum.

Hinn ókomni tíminn ber líka vetrinum þann vitnisburð, að hann reynist góður á sínum tíma. Það er góð og skynsamleg regla fyrir sjerhvern mann, að vera varfærinn í meðlæti, en vongóður í mótlæti, og þegar vjer heimfærum þessa reglu upp á sumarið og veturinn, þá gætum vjer kallað sumarið, af því það er meðlætinu svo skylt, tíma varfærninnar, en veturinn, sem hefur svo marga örðugleika við sig, eins og mótlætið, tíma vonarinnar. Vonin kemur upp í hjarta mannsins, þegar hið yfirstandandi ekki fullnægir honum, og þegar hann þykist sjá birtu betri daga fram undan sjer; svona vonum vjer líka ávallt lausnar á veturna frá hinum hörðu veðrum, þegar sumarið kemur. Það er oss allt hollt, sem glæðir vonina í hjörtum vorum um guðlegt fulltingi, til að frelsa oss frá hverju helzt andstreymi

lífsins sem er; heimurinn er vanur að vera oss fullfýsilegur, og mörgum jafnvel um of, þó vjer eigum við marga örðugleika í honum að stríða; en hversu miklu fýsilegri mundi hann þó ekki verða oss, ef hið örðuga hyrfi, og þar á meðal veturinn? Veturinn er ímynd hins jarðneska böls, sem knýr oss til, að renna augum vonarinnar til vors himneska föður; á honum sjáum vjer svo opt, hversu lítils vjer erum sjálfir megnugir, því hvað fegnir sem vjer vildum, getum vjer þó ekki eitt augnablik haft vald yfir hörkum og ofviðrum vetrarins; þegar hinir köldu vetrarvindar hrista vor veiku skýli, þá finnum vjer, að vjer þurfum styrkari handar til að leiða oss, heldur en mannanna, og vjer snúum þá augum vonarinnar til guðs, sem höfuðskepnurnar hlýða, og huggum oss þá sjálfa með þeirri vissu, að hið örðuga eigi þó ekki æfinlega að vara, því hinn sami drottinn, sem þá talar við oss í hinum deyðandi vindum, í frosti og í snjó, mun innan skamms tala við oss í hinum lífgandi blæ og í yl og dögg himinsins á hinu komandi sumri. Það ástand væri oss vissulega jafnóhollt, að vjer annaðhvort þyrftum ekki að vona, ellegar að vjer gætum það ekki. Margur mundi vissulega ekki þykjast þurfa að byggja von sína eins mikið á guði, og hann nú gjörir, ef veturinn ekki væri, og margur mundi líka missa vonina, ef hann aldrei endaði; en eins og veturinn er nú, þá er hann hvorki svo vægur, að hann láti oss ekki þurfa að vona, nje svo langur, að hann gjöri oss vonina ómögulega, og þannig er hann fyrirmynd alls þess, sem örðugt er í lífi voru. Sá kemur tíminn fyrir öllum þeim, sem bera krossinn, að vonir þeirra rætast um lausn frá öllu hinu mótdræga, og þá

skal sá tími, sem enn er þeim ókominn, bera hinum örðuga, en umliðna tíma þann vitnisburð, að hann hafi reynzt góður á sínum tíma, sjer í lagi vegna þess, að hann leiddi hugann frá hinu stundlega til hins eilífa, og sameinaði allar vorar vonir í hina einu von, að guð mun ætíð frelsa oss frá öllu mótlæti á hentugum tíma, og vegna þess, að hann gjörði oss alvörugefna og kjarkmikla og hæfari til þess, að njóta þess friðar og þeirrar gleði, sem lífið stefnir til, og sem guð hefur ætlað oss eptir vetur vors jarðneska lífs.

Þannig höfum vjer þá sjeð, að þessi nýbyrjaði vetur reynist góður á sínum tíma, af því hann á hinu umliðna sumri knúði oss til starfa, og kenndi oss skynsamlega fyrirhyggju fyrir hinu ókomna, og vegna þess, að hann sýnir oss, að drottinn leggur æfinlega bót við böli í hinu yfirstandandi, og freistar einkis yfir megn fram (1. Kor. 10., 13.), og af því, að hann glæðir vora von og traust á guði í hinum ókomna tíma, og sýnir oss fram á, að þessi von aldrei muni bregðast. Látum þá þessar hugleiðingar fylgja oss á hinum komandi vetri, til þess að sætta oss við hina gæzkuríku og vísdómsfullu stjórn vors himneska föður. Opt virðist oss líf vort hafa dapurt og vetrarlegt útlit, en guð er trúr, og sendir oss sumar eptir vetur, líf eptir dauða, og sigur eptir stríð; hans verk eru oss opt að vísu myrk og hulin, en það verður svo að vera, því að „hjer göngum vjer í trú, en ekki skoðun“, og án þess væri trúin oss heldur engin skylda og engin dyggð, en verk hans eru oss ekki heldur svo myrk, að vjer höfum enga birtu handa trúnni, og þess vegna skulum vjer ætíð kappkosta, að ganga í henni; hún er guðs dýrmætasta gjöf, og hún skal því fylgja oss í gegn um vetur þessa lífs til skoðunar hins eilífa sumars. Amen.

---

# VI.

# Á AÐFANGADAG JÓLA.

---

**Jóh, 1., 1.—14.:**

Í upphafi var orðið, og orðið var hjá guði, og orðið var guð. Það var í upphafi hjá guði. Allir hlutir eru fyrir það gjörðir, og án þess er ekkert til orðið, sem til er. Í því var líf, og lífið var ljós mannanna, og ljósið skein í myrkrinu, og myrkrið meðtók það ekki. Maður nokkur var sendur af guði, hann hjet Jóhannes. Þessi kom til vitnisburðar, að hann vitnaði um ljósið, svo að allir tryðu fyrir hans vitnisburð. Ekki var hann ljósið, heldur átti hann að vitna um ljósið. Það var hið sanna ljós, sem upplýsir hvern mann, sem kom í heiminn. Það var í heiminum, og heimurinn var fyrir það gjörður, og þekkti hann þó ekki. Hann kom til sinna, og hans eigin meðtóku hann ekki. En svo mörgum, sem hann meðtóku og á hann trúðu, gjörði hann kost á að verða guðsbörn, ekki þeim sem fæddir voru af blóðinu, nje holdsins vild, nje mannsins vilja, heldur af guði. Og orðið var maður, sem bjó með oss, fullur náðar og sannleika, og vjer sáum hans dýrð, dýrð sem þess eingetna föðursins.

Í öndverðu hljómaði guðs almættisorð og sagði: „Verði ljós", og það varð ljós (1. Mós. 1., 3.); þá rann upp

birta sólarinnar, og gjörði aðgreiningu dags og nætur; á þessari stundu hljómaði það í annað sinn, og þá rann upp birta hinnar eilífu kærleikans sólar, Jesú Krists, og gjörði aðgreiningu rjettlætis og ranglætis, lygi og sannleika. Myrkur syndarinnar hefur sí og æ leitazt við að gjöra ljósi Jesú fyrirstöðu, eins og guðspjallamaðurinn kemst að orði, „að myrkrið meðtók það ekki, en hefur þó ekki getað staðizt birtu þess; það lýsti fyrst fyrir Betlehems hirðum, þegar myrkrið hvíldi yfir öllum öðrum stöðum jarðarinnar, en síðan hefur það sent geisla sína víðar og víðar, og mun gjöra það, þangað til að birta þess nær til endimarka veraldar.

Þeir hafa að vísu verið til, og eru til enn, sem ekki hafa viljað kannast við, að ljós Jesú væri svo öldungis ómissandi, til að hrekja burtu myrkur hugskotsins, en þeir gæta ekki að því, að þegar Jesús kom í heiminn, þá þóttust margir spekingar lýsa fyrir heiminum með ljósum speki sinnar, og þessi ljósin voru í sannleika svo björt, sem í mannlegu valdi stendur að láta þau vera, en eigi að síður kallar guðspjallamaðurinn ástand heimsins við Jesú komu myrkur, til vitnisburðar um, hversu ónógt ljós vorrar eigin skynsemi er, til þess að lýsa oss dauðlegum og skammsýnum mönnum í gegn um myrkur vorrar jarðnesku tilveru; þeir hafa heldur ekki aðgætt, að það, sem þeir nú kalla ljós sinnar eigin skynsemi, og sem skýrir fyrir þeim hina guðlegu leyndardóma, ákvörðun og skyldur vorar, er þó í rauninni ekki annað en ljós Jesú Krists, sem guðspjallamaðurinn talar um; það verður því æfinlega hans ljós, en ekki skynsemi vorrar, sem sigrar myrkur heimsins, og þennan sigur Jesú ljóss yfir myrkrinu skulum vjer nú á

þessari hátíðlegu kveldstundu gjöra að yfirvegunarefni voru. Lýstu oss með þinni himnesku birtu, nýfœddi lausnari vor og guð! svo þessi yfirvegun vor geti meðal annars orðið oss til leiðbeiningar, til að ganga eins og sonum ljóssins hœfir.

Jesú ljós sigrar myrkur heimsins, með því að það upplýsir skynsemina. Hvaðan er heimur þessi kominn? hvers vegna er hann orðinn til? og að hverju stefnir hann? Þetta eru þær spurningar, sem menn fyrir Jesú komu í heiminn voru almennt í mikilli óvissu um hvernig leysa ætti úr. Gyðingar voru hinir einu, sem rjettilega leystu úr spurningunni um uppruna heimsins, og gjörðu það með hinni einföldu trú, sem lýsir sjer í þessum orðum: „Guð talaði, þá skeði það; hann bauð, þá stóð það þar“ (Sálm. 33., 9.); en þegar leysa átti úr spurningunni, hvers vegna heimurinn væri til orðinn, og að hverju hann stefndi, þá var líka skynsemi þeirra í myrkri; þeir vissu ekki almennt, að guð er kærleikurinn, og að það var vegna kærleikans, að hann skapaði heiminn, og skynsemi gœddar verur til þess, að gjöra þær farsælar og hluttakandi eðlis síns og dýrðar; þeir voru í óvissu um hinn veglega og eilífa tilgang guðs með manninn, og vonuðu því sjer í lagi, að umbun fyrir ráðvendni og trúa þjónustu væri fólgin í jarðneskri og tímanlegri velvegnun. Heiðingjarnir ætluðu sjer með skynseminni, en ekki með trúnni, að leysa úr þessari spurningu um uppruna heimsins; en aldrei hafa myrkur hins náttúrlega skilnings komið glöggvar í ljós, en með tilraunum heiðingjanna að leysa úr þessari spurningu, og það gegnir furðu, hversu fávíslegar og hjegómlegar meiningar þeirra voru í þessu

efni. Eins var heiðingjanum það hin mesta gáta, hvers vegna heimurinn væri til orðinn, og að hverju hann stefndi; að vísu sáu bæði Gyðingar og heiðingjar, að maðurinn er hin œðsta af guðs sköpuðu skepnum hjer á jörðunni, en þessi tign hans hvarf fyrir augum þeirra í myrkri grafarinnar, þar sem Jesú lærdómur segir oss, að hún byrji fyrst algjörlega fyrir þeim, sem fylgja kenningu hans.

Þessar sömu spurningar koma æ að nýju fram í sálu mannsins, en þær olla ekki framar hinum kristna, hvort sem hann að öðru leyti er vís eða fávís, neinnar efasemi; þær olla honum ekki neinnar örvæntingar vegna skynseminnar vanmættis, ellegar leiða hann í villu vegna rangra úrlausna, heldur svarar hann sjer upp á þær í ljósi Jesú kenningar, til að friða og hugga, til að uppörva og leiðrjetta sig. Þegar hjarta þitt og hugur, mœddi vegfarandi lífsins, lítið eða ekkert sjer í kring um sig, sem lífgað geti von þína og glœtt löngun þína að við halda lífinu, og hið yfirstandandi leggst á þig eins og þung byrði, sem þú ekki getur risið undir, þegar hið tilkomandi heimsœkir þig fyrir fram með þungum áhyggjum, og hið umliðna hefur að eins eptir skilið í sálu þinni beiskju sorganna, þá hefur Jesús brugðið upp ljósi í myrkri þinnar fáráðu sálar, og í birtu þess sjer þú álengdar, á bak við myrkur hins nálæga og hins tilkomanda, kærleiksríkan föður á himnum, vísdómsfullan og almáttugan, „sem talið hefur öll þín höfuðhár“, og út hlutað þjer hlutskipti þínu hjer í tímanum, til þess innan skamms að leiða þig til sinnar eilífu dýrðar. Þú sjer í birtunni af Jesú ljósi á bak við fortjald tímans hið óendanlega víðsýni eilífðarinnar, þar sem

sálu þinni er ætlaður bústaður, þegar þinni jarðnesku vegferð er lokið, og búið er að sá líkama þínum í reit hinna framliðnu; trúin á þinn himneska fræðara, Jesúm Krist, sem guðspjallamaðurinn kallar „hið sanna ljós, sem upplýsi hvern mann, sem í heiminn kom“, getur nú upplýst skynsemi þína, og látið hana eygja þar birtu, sem annars væri myrkur, og þó að stjórn guðs á kjörum þínum og bræðra þinna í heiminum sjeu þjer opt og einatt óskiljanleg, þá veiztu samt svo mikið, að þinn kærleiksríki himneski faðir gjörir ekkert nema það, sem gott er, og þú treystir því trúaröruggur, að þó þú hjer í tímanum sjáir ekki nema í spegli og í ráðgátu, þá munir þú þó á síðan fá að sjá berlega, og að þekkja guð, eins og þú sjálfur ert af honum þekktur (1. Kor. 13., 12.), og að kannast þá við, að allir hans vegir er miskun og trúfesti. Skynsemi þín þarf því ekki lengur að leita sjer festu í óvissum ágizkunum, nje að fljúga hælislaus frá einum stað til annars innan um hinn víða geim, nje frá einu villuljósi til annars, og að þreyta sig á viðstöðulausu flugi, heldur áttu hinu himneska ljósinu, sem á þessari nóttu rann upp í Betlehem, það að þakka, að þú veizt með postulanum, á hvern þú trúir (2. Tím. 1., 12.), og trú þín er ekki neinn óljós grunur, heldur er hún hin fullkomnasta vissa, af því hún er byggð á bjargi þeirrar kenningar, þeirra dásemdarverka, sem hinn nýfæddi sveinninn í Betlehem kom til þess að opinbera heiminum. Krjúptu því, efasama og fáráða sál, í auðmýkt og tilbeiðslu að fótum þessa mikla meistara, og lærðu þar þann vísdóm, sem enginn spekingur hefur getað fundið, en sem hinn eingetni sonur guðs, „sem út er genginn af föðursins

skauti“, einn hefur getað opinberað heiminum; reyndu ekki til, að finna neinn nýjan lærdóm, nýja fræðslu til úrlausnar þeim spurningum, sem hin dýpsta meðvitund þín ber upp fyrir þjer, um það, hver endir verði baráttu þinnar, og að hverju allt hið skapaða stefni, heldur hlustaðu að eins á kenningu þíns himneska fræðara, og reyndu að gjöra þjer hana skiljanlega, svo mikið sem þjer er unnt; geymdu hana svo í trúnni, og muntu öðlast þá birtu og þann frið, sem þú ert eptir að leita.

Jesú ljós rekur burtu myrkur ranglætisins. „Aldrei hefur neinn talað eins og þessi maður“, sögðu þeir forðum, sem prestahöfðingjarnir og Faríseararnir höfðu sent til þess, að handtaka Jesúm (Jóh. 7., 46.); hvað var það, sem kom þeim til að bera kenningu Jesú þennan vitnisburð? Var það ekki hið guðlega vald orða hans, með hverju þau tala til samvizku sjerhvers manns, svo hún knýst til þess, að ganga í sjálfa sig, og að prófa sig eptir hinu algjörða lögmáli guðs? Var það ekki sannleikans heilaga vald, sem æfinlega er sameinað guðs heilaga orði, og gjörir það beittara hverju tvíeggjuðu sverði, svo að það þrengir sjer milli sálar og anda, liðamóta og mergjar, og dæmir þanka og hjartans hugrenningar (Ebr. 4., 12.)? Jú, því þegar Jesús talar, þá eru orð hans ekki eins og vor mannanna, sem annaðhvort deyja aflvana á vörum vorum, eða þau svæfa, í stað þess að vekja, æsa, í stað þess að leiðrjetta; en orð Jesú vekja, um leið og þau leiðrjetta, lífga, um leið og þau deyða, planta og skapa hið nýja, um leið og þau upp ræta og eyða hinu gamla, hinni meðfæddu spillingu, sameina, um leið og þau sundra, svo að

engin rót ranglætisins verður framar í hjörtum þeirra manna, sem ljá þeim rúm hjá sjer, og þeir verða ekki lengur hinir sömu, heldur nýir og endurfœddir.

Það er ekki nóg, til þess að skilja Jesú lærdóm, að kannast við, að hann sje hinn sannasti, hinn veglegasti og hinn samboðnasti mannlegri tign og ákvörðun, því með því er ekki meira um hann sagt, en að hann eigi skilið samsinningu skynseminnar; en vjer verðum líka, til þess að geta skilið eðli hans rjettilega, að játa, að hann hafi guðlegt vald, sem gagntaki hjartað og viljann, og veki ný áform, skapi nýja ávexti í lífi þess manns, sem heyrir hann og breytir eptir honum. Hvað gagnar öll samsinning skynseminnar, öll játning varanna, að eitthvað sje satt og rjett, ef hjartað og viljinn ekki eiga neinn þátt í játningunni? Það er sorgleg reynsla, að fjöldi manna breytir ekki illa af einni saman fáfrœði, heldur af því, að hjörtu þeirra, þeirra langanir og vilji eru í stríði við skynsemina; það er sjaldnast af því, að kenning þeirra, sem orðið flytja, ávinni sjer ekki samsinningu skynseminnar, að hún vinnur svo lítið á hjörtun, heldur af því, að hana vantar hið skapandi ljós Jesú kenningar, sem sigrazt getur á myrkrum ranglætisins. Vjer höldum svo opt, að vegurinn til þess, að verða kristinn, byrji á því, að skýra fyrir oss einstök atriði í kristindóminum, en vjer gleymum því, að vegurinn til þess liggur fyrst og fremst í gegn um iðrunina, sem hið skapandi vald Jesú orða vekur í sálunni, um leið og það bregður upp birtu sinni í hugskoti mannsins, og lætur hann geta sjeð sitt ófullkomna og flekkaða líf. Allar sannkallaðar framfarir í mannsins andlega lífi koma frá ljósi Jesú Krists,

sem hrekur burtu myrkur vors ranglætis, því á meðan hjartað og viljinn eru myrkvuð, þá er skynsemin það líka, svo að það rætist, sem postulinn segir, að holdlegur maður skilji ekki hið andlega (1. Kor. 2., 14.); en sá, sem ljós Jesú Krists er búið að endurskapa í iðruninni, svo að hjartað og viljinn eru orðin hrein, honum er og opnaður nýr vegur handa skynseminni, til þess að skilja og að þekkja, og þess vegna segir postulinn, að hinir heilögu munu heiminn dœma (1. Kor 6., 2.), af því þeir standa á œðra stigi menntunar, heldur en þeir, sem hafa hjartað og viljann fjötrað af syndinni, hvað upplýsta sem þeir annars kunna að geta kallað sig. Sýndu oss því æ að nýju, himneski frœðari vor! syndumspillt ástand vort í birtu þíns heilaga orðs, og byrjaðu svo þitt endurlausnarverk í oss, með því að gefa oss ný og endursköpuð hjörtu; láttu oss ekki að eins játa það með vörunum, heldur og finna til þess í samvizkum vorum, að ljós þinna orða sundrar myrkrum vors ranglætis með birtu þíns rjettlætis, sem að eins býr í hreinu og endurfœddu hjarta.

Jesú ljós hrekur burtu myrkur örvæntingarinnar. Hversu opt þurfum vjer ekki allir huggunar við, og þó vjer ekki, ef til vill, þurfum hennar á þessari stundu, þá vitum vjer ekki, hvort svo muni lengi verða, því gleði mannsins breytist opt skjótt í sorg; en þegar vjer þurfum huggunarinnar við, þá hefur hann, sem fœddist á þessari stundu í jötunni í Betlehem, skipað oss, sem erum örmœddir og þunga þjáðir, að koma til sín, og gefið oss fyrirheiti um, að vilja endurnœra oss. Hlýðum þessu boði, og flýjum til hans í öllu voru böli; vjer höfum hvort

sem er opt og einatt ekki til annars að flýja; því hversu opt er ekki hörmum vorum svo varið, að það er eins og huggun mannanna verði ekki nema til að auka þá. Og þessi lýsing á því fremur heima hjá oss, sem sorgin er sárari; og hver sorg er sárari en sú, sem meðvitund syndarinnar ollir oss, og það sjer í lagi hinum deyjandi. Hvað ætli hann, sem finnur, að dauðinn hefur þegar gagntekið limu sína, geti huggað sig við hinar einkis verðu hugganir vina sinna, að hann hafi ekkert að óttast, því hans grandvara líferni gjöri hann fullvissan um hlutskipti hinna rjettlátu í eilífðinni? hlýtur hann ekki að heyra kröptugri orð en mannanna, til þess að geta sigrazt á skelfingum dauðans og brigzlum sinnar hrelldu samvizku? Hvað gagnar honum, að þeir minni hann á hans einstöku góðverk, hans lýtalausu breytni í heiminum, ef samvizka hans segir honum, að jafnvel hans beztu verk hafi þó ekki verið runnin af svo hreinni rót, eins og mennirnir hjeldu? Hugganir þeirra eru þá næstum eins og gys að hans örvæntingarfulla ástandi, eða eins og tilraun, að svæfa þá samvizku, sem ekki verður lengur svæfð, í stað þess að hugga hana; hvað getur yfir höfuð huggað hinn kristna í iðruninni og í dauðanum, þegar hann sjer í ljósi Jesú kenningar og heilagleika, hversu mikið guðs heilaga lögmál heimtar af oss mönnunum, og þegar hann játar og finnur, að þótt hann hefði gjört allt það, sem hann átti að gjöra, eigi hann þó að kalla sig ónýtan þjón (Lúk. 17., 10.)? og við hverju getur hann þá búizt, þegar hann jafnvel ekki verðskuldar að heita ónýtur, heldur ódyggur þjónn? Að vísu getum vjer ekki skilið, hvernig guð tilreiknar oss rjettlæti Jesú, en það finnum vjer, að vjer

þurfum þessa rjettlætis við, og vjer höfum oss þá ekkert annað til huggunar, en rjettlæti hans; oss er það nóg, að Jesús hefur sagt, að hann hafi látið sitt líf fyrir sína sauði (Jóh. 10., 15.), og vjer grípum þessa huggun með fögnuði trúarinnar, til þess að sigrast á örvæntingu samvizkunnar, og til þess að fyrirfarast ekki. Ekkert er í sannleika meira kraptaverk, en að iðrandi syndari getur tileinkað sjer Jesú verðskuldun, og getur það jafnvel á hinum síðustu stundum lífsins, þegar hann ekki er neins annars megnugur, og varir hans og tunga eru hættar að geta bærzt. Það er svo sýnilegur vottur þess, að ljós Jesú yfirgnæfir öll myrkur mannlegrar eymdar, og að hans náð er næst, þegar neyðin er stærst.

Til eru að sönnu þau örvæntingarmyrkur, sem ljós Jesú virðist ekki geta hrakið; vjer tölum hjer ekki um þá örvæntingu, sem samfara er hinum eilífa dauða, heldur þá, sem sumir sturlaðir hafa til dauðadags, án þess að þeir geti tileinkað sjer Jesú verðskuldun. En svo sannarlega sem Jesús hefur liðið fyrir afbrot mannanna, svo sannarlega skulu og þessir syndarar sannfærast um, „að það, sem er ómögulegt fyrir mönnum, það er mögulegt fyrir guði“ (Matt. 19., 26.). Þeir hafa rjett fyrir sjer í því, að ástand vort er fyrirdœmingarinnar ástand, og að það er eitt af hinu óskiljanlegasta, hvernig hinn rjettláti og heilagi guð getur fyrirgefið syndaranum og álitið hann eins rjettlátan, og ef hann hefði uppfyllt öll hans heilögu boðorð; þetta er sá leyndardómur guðs kærleika, sem hinn dýpsti skilningur manna ekki getur gripið, og þess vegna er það að eins Jesú friðþægingarljós, sem getur sundrað þessum örvæntingarinnar myrkrum. En

hvers vegna lætur Jesús ekki strax þetta ljós upplýsa hjörtu þessara sturluðu og iðrandi syndara? Að vísu er ekki mannlegum skilningi gefið, að rannsaka til hlítar guðs leyndarráð, en þó virðist vísdómsfullur tilgangur vera í því fólginn, því að auk þess, að iðrunin getur verið röng, getur og drottinn haft þann tilgang, eins og hann hafði við hina kanversku konu, að láta þessi sín börn ákalla sig, án þess að svara, til þess að hreinsa og reyna enn þá betur trú þeirra, en einkum til þess, að láta þau vera hátalaðan vott um, fyrir hinum iðrunarlausu, hversu skelfilegar syndarinnar afleiðingar eru. Hann, hinn eilífi miskunarbrunnur, veit bæði stund og tíma, þegar hann ætlar að láta sitt huggunarljós sundra myrkrum þeirra örvæntingar, en sú kemur þó vissulega stundin fyr eða síðar; það að hann lætur þessi sín sturluðu börn líða hjer í tímanum, er þess líka vottur, að hann ætlar að frelsa þau í eilífðinni.

Þjer, vor nýfæddi lausnari, eigum vjer að þakka alla sanna birtu vorra sálna, og vjer vitum af engu öðru ljósi, til þess að lýsa oss á vegferðinni gegn um lífið til himinsins; láttu það á þessari heilögu stundu og allar vorar ókomnu æfistundir lýsa fyrir oss, svo vjer treystum engum mannlegum vísdómi nje sjálfgjörðu rjettlæti og svikulum huggunum, heldur umföðmum þig með örmum elskunnar og trúarinnar, og veljum þig fyrir vorn kennara, vort rjettlæti og gleði, í tímanum og í eilífðinni. Lýstu sjer í lagi fyrir oss í myrkrum dauðans, svo vjer þá sjáum, og verðum glaðir, bjarma þeirrar dýrðar, sem þú hefur afrekað oss. Amen.



